# ÆFI-ÁGRIP

og

# ÚTFARAR-MINNÍNG

**Bjarnar Auðunnssonar Blöndals,**

Kansellíráðs og sýslumanns í Húnavatnssýslu.

Samin af

Sveini presti Níelssyni.

---

*Gefin út*

að tilhlutun og á kostnað ekkjunnar.



**Reykjavík.**

Prentað í prentsmiðju landsins, af prentara H. Helgasyni.

1848.



Það er ágætur hlutur, að eiga góðan vin; það eru mikil gæði, að eiga gott yfirvald; en þegar góði vinurinn — góða yfirvaldið eru misstir, að því sem oss finnst, eru nefnilega dánir, þá er það skyldugt að geyma minníngu þeirra, svo vel sem kostur er á. Það er bæði hryggilegt og inndælt, að tala yfir moldum vina sinna; hryggilegt, því saknaðar tilfinníngin er þá svo ný og sár; inndælt af því að það veitir ætíð unaðsemd að þjóna vini sínum, og það jafnvel þar, og í seinasta sinni.

Þeim, sem eptirfylgjandi minníngarorð hefur samið, gafst ekki kostur á að tala yfir moldum þess merkismanns, sem hjer skal minnast. En tilfinníng eigin vanmáttar, og þekkíngin á þeim vandkvæðum, sem við það eru að semja æfisögur, jafnvel nýlátinna manna, gat þó ekki hindrað hann frá því að takast, eptir beiðni virtra vina, á hendur, að semja þetta stutta ágrip. Það verður nú að sýna sig kunnugum og ókunnugum, eins og það er. Jeg vil ekki heldur leyna því, að það er næstum því eingaungu byggt á eigin þekkíngu minni, og er jeg mjer þess meðvitandi, að jeg vildi segja allt, sem sannast jeg vissi, og ekkert ofherma, sem hinum framliðna er til ágætis talið; af þessum rökum vona

jeg, að honum sje hjer svo lýst, að hann þekkist til hlítar, eins og vert er að þekkja látinn mann, þó fátt sje talið; og að þeir, sem voru honum kunnugastir, finni hjer ekkert það, sem þeir kannist ekki við. Það er fyrsta og seinasta óskin mín við þetta litla starf: að það gæti orðið styrkur til að geyma loflega minníngu þess ágæta merkismanns sem hjer ræðir um:

Kansellíráð Björn Auðunnsson Blöndal er borinn í þennan heim að Blöndudalshólum í Húnavatnssýslu 1. dag nóvembermánaðar árið 1787. Foreldrar hans voru þau: sjera Auðunn [1] Jónsson, sem

---

[1]) Auðunn faðir sjera Jóns á Bergstöðum lifði á suðurlandi um aldamótin 1700. Meira hefur ei orðið uppgötvað um þá ætt. En kona sjera Jóns á Bergstöðum hjet Helga Illugadóttir. Kona þess Illuga hjet Guðrún, dóttir Jóns Sigurðssonar á Balaskarði. Kona Jóns Sigurðssonar hjet Helga Hallsdóttir, sá Hallur er talinn Halldórsson lögsagnara á Seilu, Þorbergssonar, Hrólfssonar sterka Bjarnasonar.

Kona Sigurðar föður Jóns á Balaskarði var Helga dóttir Bessa á Urðum, Hrólfssonar sterka.

Sjera Jón Bjarnarson á Auðkúlu móðurfaðir Blöndals var sonur sjera Bjarnar, sem var prestur á Hjaltastöðum í Skagafirði 1733—1759, Skúlasonar, Ólafssonar lögrjettumanns á Seilu, Bergþórssonar djákna á Reynistað, Sæmundssonar prófasts í Glaumbæ frá 1594—1638, Kárssonar, Sæmundssonar, Símonssonar lögsagnara í Þíngeyarþingi um aldamótin 1500.

Kona Bergþórs djákna Sæmundssonar á Reynistað var Björg Skúladóttir, systir Þorláks byskups; faðir þeirra var Skúli Einarsson á Eiríksstöðum í Svartárdal.

Kona Skúla á Eiríksstöðum var Steinun dóttir Guðbrands byskups Þorlákssonar prests á Staðarbakka, Hallgrímssonar á Egilsstöðum í Vopnafirði, Sveinbjarnarsonar í Múla prests og Officialis, Þórðarsonar.

Kona Skúla Ólafssonar en móðir sjera Bjarnar á Hjalta-

var prestur í Blöndudalshólum frá því árið 1782 til dauðadags, 7. dag febrúarmán. 1807, og madama

stöðum var Halldóra dóttir Halldórs lögsagnara á Seilu, Þorbergssonar, Hrólfssonar sterka. Kona Halldórs lögsagnara Þorbergssonar hjet Vigdís, dóttir sjera Ólafs, sem hjelt Miklabæ í Blönduhlíð frá 1628 til 1658, Jónssonar prests í Grímstúngum um 1570, Bjarnarsonar prófasts og Officialis i Saurbæ í Eyjafirði, Gíslasonar á Hafgrímsstöðum, Hákonarsonar á Vindheimum, Hallssonar, Finnbogasonar gamla í Ási í Kelduhverfi Jónssonar lángs, sem fjell í Grundarbardaga 1362.

Sjera Sæmundur Kársson prófastur í Glaumbæ átti Ragnheiði Sigurðardóttur, sýslumanns á Reynistað, Jónssonar á Svalbarði, Magnússonar á Skriðu, Þorkelssonar prests og Officialis í Laufási frá 1449 til 1483, Guðbjartssonar prests, Ásgrímssonar prests, Flóka á Myrká, Guðbjartssonar, Vemundarsonar Kögurs, sem var uppi snemma á 14. öld og er talinn af ætt Götuskeggja í Færeyjum.

Hrólfur sterki, hvers hjer er nokkrum sinnum áður getið, átti Íngibjörgu Bjarnadóttur Torfasonar hins ríka í Klofa, Jónssonar, Ólafssonar sýslumanns í Klofa, Loptssonar riddara hins ríka, Guttormssonar. Kona sjera Jóns Bjarnarsonar á Auðkúlu hjet Halldóra, dóttir Árna merkisbónda í Bólstaðarhlíð, Þorsteinssonar sýslumanns samastaðar, Benediktssonar, Bjarnarsonar í Bólstaðarhlíð, Magnússonar á Hofi Bjarnarsonar prófasts á Melstað, Jónssonar byskups á Hólum Arasonar, Sigurðssonar priors Jónssonar; Jón sá lifði um og eptir aldamótin 1400. Þorsteinn sýslumaður í Bólstaðarhlíð átti Halldóru, dóttur sjera Erlendar, sem hjelt Melstað frá 1649—1697, Ólafssonar prests á Breiðabólstað Erlendssonar prests samastaðar, Pálssonar sýslumanns í Húnavatnsþíngi, Grímssonar ríka á Möðruvöllum, sýslumanns í Þíngeyjarþíngi, Pálssonar á Möðruvöllum, Brandssonar lögmanns á Hofi, Jónssonar prests og Officalis á Grenjaðarstað, Pálssonar á Eyðum, höfuðsmanns, umboðsmanns, Þorvarðssonar; Þorvarður var uppi á 14. öld.

Halldóra Jónsdóttir. Sjera Auðunn var sonur sjera Jóns Auðunnssonar, sem hjelt Bergstaði í Svartárdal frá 1742 til 1782; en madama Halldóra var dóttir sjera Jóns Bjarnarsonar, sem hjelt Auðkúlustað frá 1753 til 1767. Björn ólst upp hjá foreldrum sínum í Blöndudalshólum, að 2 árum undanteknum, þá hann var smalapiltur hjá sjera Jóni Jónssyni á Auðkúlu, sem drukknaði í Svínavatni 1817. Var það orðlagt, hve glöggur hann var á sauðfje. Seinni veturinn þar mun hann fyrst hafa farið að hnýsast eitthvað í latínu. Litlu eptir það að hann var heim kominn til foreldra sinna, eða um haustið 1804 komu þau honum suður í Reykjavíkurskóla, jafnvel þó bágt væri enn í ári, og þau fátæk, og hefðu mikla ómegð að annast, því 11 börn þeirra urðu fulltíða; en þau vildu taka það nærri sjer, til að leita þess-

---

Kona Benedikts Bjarnarsonar á Bólstaðarhlíð hjet Guðrún, systir Einars byskups á Hólum Þorsteinssonar, prests á Hvammi í Norðurárdal frá 1631 til 1645, Tyrfingssonar í Hjörtsey, Ásgeirssonar prests að Lundi í syðri Reykjadal fyrir 1560, Hákonarsonar sýslumanns á Fitjum.

Kona Páls sýslumanns Grímssonar í Húnavatnsþingi hjet Margrjet Erlendsdóttir, Bjarnasonar sýslumanns á Ketilsstöðum, Marteinssonar. Kona Bjarna Marteinssonar hjet Ragnheiður dóttir Þorvarðar, Loptssonar ríka Guttormssonar.

Kona Þorvarðar Loptssonar hjet Margrjet dóttir Hólms hirðstjóra; hans faðir var Ívar Hólmur hirðstjóri, sonur Vigfúsar Hólms hirðstjóra, hans faðir Ívar Hólmur, sonur Vigfúsar Hólms lends manns, Hákonar gamla Noregskonúngs; eru þessir feðgar þannig taldir af hinum fróða Jóni sýslumanni Espólín. Ívar Hólmur átti Ástu Klængsdóttur, Teitssonar hálfbróðurs Gissurar jarls Þorvaldssonar í Hruna, Gissurarsonar lögsögumanns, Hallssonar byskupsefnis Teitssonar í Haukadal, Ísleifssonar, fyrsta byskups á Íslandi, Gissurssonar hvíta, Teitssonar, Ketilbjarnarsonar hins gamla landnámumanns á Mosfelli.

um syni sínum menntunar, því snemma lýsti það sjer, að hann var einkar vel þar til fallinn, og gáfaður um fram öll systkyni sín — eins og faðir hans hefur skriflega vottað — stilltur, gætinn og siðprúður. Um þær mundir var af mörgum, einkum þeim, sem áttu ekki hæga aðstöðu, lítið skeytt um menntun undir skóla, því eptir slíku var ekki ríkt geingið af umsjónarmönnum skólans; þess vegna komu þá ekki allfáir piltar svo í skóla, að lítið sem ekkert höfðu í skólalærdómi numið, og einn í þessara tölu var Björn Auðunnsson; en þótt hann nú að líkindum settist neðarlega í skólanum, fórst honum þar strax vel, þegar hann fór að kynnast því, sem með var farið, og ávann sjer brátt þokka skólabræðra sinna og hylli kennaranna; og eptir því sem honum jókst aldur og menntun, lýsti það sjer betur — það hafa nokkrir skólabræður hans sagt mjer — hvert mannsefni hann var. Sú mun líka optast raunin á verða, að skólaveran er nokkurskonar fyrirmynd mannsins æfi, og þeir verða aldrei lítilmenni, ef aldur auðnast, sem eru vel þokkaðir og virtir af skólabræðrum sínum. Meðan Björn gekk í skóla, var hann á sumrum hjá foreldrum sínum, meðan faðir hans lifði; en sumurin 1807 og 1808 var hann hjá móður sinni í Túngukoti syðra, því þángað fluttist hún frá Blöndudalshólum á næsta vori, eptir lát manns síns. Vorið 1809 útskrifaðist Björn úr Bessastaða skóla af þá verandi *Lector theologiæ* Steingrími Jónssyni — sem seinna varð byskup — með ágætum vitnisburði[2]. Þar eptir dvaldi hann í 3 ár hjá

---

[2]) Björno Audinæus natus mense Novembri anno 1787 Blöndudalsholis intra toparchiam Hunavatnensem patre Audino Jonæo, pastore, dum vixit, id loci dignissimo, matre Halldora Jonæ filia, dotatus est felici ingenio, acuto judicio, firma memoria, quæ omnia optata excoluit industria, morum honestate specta-

móður-frænda sínum sjera Birni Jónssyni í Bólstaðarhlíð, og hjeldu sumir hann hefði í hyggju að íleingjast þar, og mægjast við prest, því hann átti margar dætur efnilegar. En ekki varð af því; kom þá í orð, að hann gerðist aðstoðarprestur annarstaðar; úr því varð ekki heldur, því honum var annað ætlað, þó það kæmi ekki þá þegar upp. Sumarið 1812 fór Björn frá Bólstaðarhlíð alfarinn, og gerðist barnakennari og verzlunarþjónn hjá kaupmanni Schram í Höfðakaupstað. Kunnugur maður hefur sagt mjer, að sláttur hafi verið byrjaður, þegar hann fór frá Bólstaðarhlíð og út í kaupstaðinn, hafi hann þá lagt

---

bilis. In literis, qvibus per proxime elapsum septenninm sub publica, si unum exceperis annum, institutione operam navavit, tantos fecit progressus, ut ad ultimi, qvod hoc mense sustinuit, examinis censuram dignus judicatus sit, qvi

| | |
|---|---|
| in Religionis doctrina et Novi Foederis exegesi, Historia et Geographia | egregia laude |
| in Lat. et Græcis auctt. interpretandis lingvaqve Danica intelligenda | magna laude |
| in stylo Latino | |
| Hebraica 3 Genes. capitt. analysi, lingva Germanica intelligenda, Declamatione et Arithmetica | laude |
| in stylo Danico . . . . . . . . . , . . . . . . | mediocri laude |

mactaretur; tentamen oratorium pro sacris rostris feliciter absolvit. Audinæum igitur nostrum optimæ spei adolescentem rite et honeste dimissum testamur, ipsum ad faustissima qvævis tendentem faustissimis prosecuti votis.

Dabam Lambhusis d. 20. Maji 1809.

*Steingrimus Jonæus*
Lect. Theol.

*(L. S.)*

niður orfið með þeim ummælum: „að óvíst væri hve nær hann tæki sjer aptur orf í hönd;“ er þessa hjer getið, því það lýsir náttúrufari mannsins. Í kaupstaðnum kynntist hann fyrst við stúlku þá, sem seinna varð kona hans, og hverri hann trúlofaðist sama sumarið og hann sigldi, 1815, og verður hennar síðar getið fremur.

Af litlu atviki — og atvikin, sem lítil sýnast, verða opt orsök til mikils í hans hendi, sem öllu stjórnar — sem aðbar í kauptíð sumarið 1815, rjeðist Björn í, þó farareyrir væri lítill, að sigla suður til Danmerkur til frekari menntunar; með Höfðaskipi ætlaði hann að fara, en það brotnaði í ofviðri ferðbúið á höfninni. Björn hjelt eingu að síður áfram fyrirætlun sinni, fór norður á Akureyri, og sigldi þaðan um sumarið. Þegar hann um haustið var til Kaupmannahafnar kominn, tók hann að nema danska lögvísi á háskólanum, þar hann treystist ekki til, sökum fátæktar, að fara leingri og kostnaðarsamari veginn. Á þessari iðn hjelt hann í 3 ár, þó með miklum frátöfum, því bæði fór hann sumarið 1816, fyrir bón kaupmanns Buschs, sem þá átti verzlunina í Höfðanum, híngað með verzlunarskipinu, og aðstoðaði Schram um verzlunartímann, og fór svo aptur með sama skipi til Kaupmannahafnar, og svo varð hann líka allt af að hafa ofan af fyrir sjer, meðan hann dvaldi við háskólann, með þeirri svo kölluðu stunda-kennslu. Þegar hann kom á háskólann, tók hann sjer kenníngar nafnið „Blöndal“, og verður hann hjeðan af með því nefndur.

Í janúar- og febrúar-mánuðum árið 1818 var hann af lögfræðiskennurum háskólans, Hurtigkarl, Brorson og Bornemann reyndur í lögvísi með góðum vitnisburði. Í marzmánuði sama ár sótti hann um Ísafjarðarsýslu, en hvers vegna það komst ekki leingra,

er mjer ókunnugt. Skömmu síðar rjeðist hann sem aðstoðarmaður til valdsmannsins í Skelfiskaeyri (Skjelskjör) Thuesens, og mun hann hafa dvalið þar eitthvað á þriðja missiri, og fór svo þaðan með bezta vitnisburði vorið 1819, og rjeðist sem aðstoðarmaður til Moltke, sem þá var af konúngi skipaður hjer amtmaður fyrir sunnan og stiptamtmaður yfir landinu. Kom Blöndal híngað út með Moltke samsumars, og dvaldi hjá honum í Reykjavík um árstíma. Þá tók hann stundum að sjer málaflutníng við landsyfirrjettinn, og þótti honum farast það ágætlega.

Það varð um þessar mundir, að sýslumaðurinn í Húnavatnsþíngi, Jón Jónsson, sem opt hefur verið kenndur við Bæ í Hrútafirði, beiddist lausnar frá embætti, sökum elli og heilsu brests. Þegar Blöndal komu þær fregnir, og hann hafði feingið vissu fyrir, að þær væru sannar, beiddist hann eptir þessu sýslumannsembætti, bæði sökum kunnugleika og fleira; studdi stiptamtmaður Moltke mál hans, því honum líkaði vel þjónusta hans; enda fjekk bænin náðuga áheyrslu, og honum var veitt sýslumanns embættið 22. dag júnímánaðar 1820; og fluttist hann norður híngað síðla sumars, og settist að á Þíngeyrum hjá klausturhaldara Birni Ólsen, og tók strax við sýslustjórn. Heitmey Blöndals, hverrar áður er getið, Guðrún dóttir Þórðar Helgasonar fátæks gáfumanns frá Skrapatúngu[1], og Oddnýjar Ólafsdóttur

[1]) Helgi í Skrapatúngu Bjarnason var bæði gáfumaður, góður skrifari og rímnaskáld; hann dó í harðindunum 1784. Vigdís hjet kona hans, Jónsdóttir, áttu þau mörg börn, hverra 3 lifðu af þau minnilegu móðuharðindi. Þórður Helgason komst, sökum gáfna sinna og fyrir tillögur góðra manna, úngur í þjónustu hjá Stiesen kaupmanni í Höfðakaupstað; mannaði Stiesen hann vel, bæði hjá sjer og í Kaupmannahöfn, og gerði

konu hans, systur Bjarnar Ólsens á Þíngeyrum og þeirra bræðra, hafði farið utan með húsmóður sinni, konu kaupmanns Schrams, sama haustið og Blöndal sigldi, og dvalið um hríð í Kaupmannahöfn, framast þar í hannyrðum og fleiru, sem heldri manna konum hæfir að kunna, og feingið hvervetna gott orð; þótti hún þá fyrirtaks kvennkostur, bæði sökum álits og einkum siðprýðis og frammúrskarandi dugnaðar, eins og raun bar síðar vitni um. Hún kom út híngað sumarið 1821 að vitja unnusta síns, og giptust þau samsumars, og dvöldu svo á Þíngeyrum hjá Ólsen til næsta vors.

Blöndal hafði valið sjer til bústaðar klausturjörðina Hvamm í Vatnsdal og fluttist hann nú vorið

---

hann að aðstoðarmanni sínum. Þórður giptist 1796 Oddnýju Ólafsdóttur frá Vindhæli, en sigldi til Kaupmannahafnar sumarið eptir í von um, að geta orðið kaupmannsfulltrúi (Factor), en skildi konuna eptir hjá foreldrum hennar á Vindhæli, og ól þar sama haust, þann 2. dag októbermánaðar, Guðrúnu, hverrar hjer er minnzt, og varð kona Blöndals. Þórður kom aptur á næsta sumri á Akureyri í Eyjafirði með kaupskip og vörur, og byggði sjer þar verzlunarhús og gerðist kaupmannsfulltrúi. Oddný kona Þórðar var dóttir Ólafs á Vindhæli, merkisbónda og hreppstjóra; var hann sæmdur verðlaunum fyrir það, að hafa vel uppalið í harðindum 6 syni og 2 dætur. Guðmundur faðir Ólafs var hreppstjóri og bjó á Árbakka, Magnússon Hallssonar á Árbakka. Kona Ólafs á Vindhæli hjet Guðrún Guðmundsdóttir hreppstjóra í Höfnum á Skaga, Bjarnarsonar hreppstjóra í Valdarási, Sveinssonar. Kona Guðmundar í Höfnum hjet Margrjet Bjarnardóttir hreppstjóra Arasonar í Geitafelli. Margir af forfeðrum þeirra Vindhælis bræðra Ólafssona voru orðlagðir fyrir vöxt og afl og atorku, og þótti þeim sjálfum kippa í kyn með slíkt; Björn hefur leingi þótt fyrirtaks atorku og framkvæmdamaður, en þeir Jón, Magnús og Helgi voru mestu karlmenni.

1822 þángað frá Þíngeyrum og reisti þar bú. Voru efni þeirra hjóna ekki mikil í fyrstu, en þau jukust bráðum, því bæði voru embættistekjur miklar, og ekki skorti heldur skynsamlega fyrirhyggju og dugnað. Húsakynni í Hvammi voru þá lítil og mjög fornleg, og ekki aðkomuleg fyrir slíkan mann. En þegar 5 ár voru liðin frá því Blöndal reisti þar bú, var þar kominn upp nýr og reisulegur bær, húsbóndanum sæmandi; og þar að auki bar bújörðin, einkum úthýsi og tún, í tilliti til umhirðíngar og gæða, mörg merki þess, að þar bjó búhöldur góður, efna - og dugnaðar - maður.

Þegar Blöndal tók við hjeraðsstjórn í Húnavatnssýslu, þá var ástand hennar, sem þó jafnan hefur talin verið, eins og skáldið kvað: „ítrasti hluti norðurlands“ svo varið, að full þörf sýndist á, að þángað kæmi þá það yfirvald, sem hvorki skorti góðan vilja, vitsmuni, einurð nje dugnað. Hafði næstu formönnum Blöndals hjer orðið hjeraðsstjórnin ærið erfið og þó einkum þeim seinasta, sem að vísu var vitur maður og góðgjarn og vel um sig í mörgu, en þá hann híngað kom orðinn gamall og heilsulítill, hafði ekki heldur áður vanizt stórbrotnum mönnum eða andráðri í hjeraðsstjórn, var maður gæflyndur og heldur seinn til svars og úrskurðar.

Fyrsta veturinn og vorið sem Blöndal sat hjer að embætti var hann jafnan í þíngaferðum og málaprófum, og ljet hann það ekki á sig bíta nje letja sig, þó sakamenn væru stórlátir og erfiðir viðureignar, hefðu við dylgjur og jafnvel heitíngar. Enda kvað þá strax svo mikið að honum, að geigur tók að koma í brjóst mörgum óknyttamönnum og sjálfræðis umhleypíngum, því þeir sáu með fullri raun, að nú var það yfirvald komið, sem ljet til sín taka, og leiddi ekki hjá sjer neina óhlutvendni nje ósiðu,

og bar ekki rjettlætissverðið til ónýtis. Blöndal sagði það einusinni seinna einum kunníngja sínum, að strax sem hann var hjer til embættis kominn og sá hvernig hjer á stóð, hefði hann einsett sjer að rjúfa fyrst þann óaldarflokkinn, sem þá var orðlagðastur, og fella foríngjann, og kvaðst hann þá hafa gert sjer góða von um, að sjer mundi verða greiðara fyrir að brjóta regluleysið, og koma hjer á betra háttalagi. Það var hvorttveggja, að þetta var vel og vitnrlega stofnað, enda gekk það að óskum, og má svo að orði kveða, að hann ynni hjer sinn fyrsta sigur sem embættismaður: dómur hans í hinu margbrotna og vandasama máli var staðfestur bæði í landsins yfirrjetti og sömuleiðis að lokunum í ríkisins hæstarjetti (eins og optast, þegar svo lángt rak) og sá veik hjeðan alfarinn af landi burt, er bæði yfirvaldinu og öllum góðum mönnum þótti óþarfastur.

En ekki ljet Blöndal sjer síður annt um það, að rjetta hluta þeirra, sem hann komst að, að urðu fyrir rángindum eða ágángi, án manngreinar álits, heldur enn að hegna illvirkjum, og var það sannast, að hann var, að svo miklu leyti, hann gat til náð, athvarf lögræníngjanna.

þessi er nú í stuttu máli lýsíng hjeraðsstjórnar Blöndals; þannig byrjaði hann hana, og þannig hjelt hann henni áfram til dauðans; og má nærri geta, að hann í þessum sporum og með þessari háttsemi hafi komið miklu góðu til leiðar, og afstýrt mörgu illu á 26 árum.

Það var alkunnugt bæði innan lands og utan, hvílíkur fyrirtaksmaður Blöndal var. Hið kgl. norræna Fornfræðafjelag kaus hann því fyrir brjeflegan meðlim sinn 1828. Konúngur vor, Friðrik hinn 6., skipaði hann 1838 í embættismannanefnd þá, er hald-

in var í Reykjavík sumurin 1839 og 1841, í hverri, eins og alkunnugt er, sátu 10 landsins embættismenn, sem kjörnastir þóttu til að yfirvega ein og önnur landið mikils umvarðandi málefni, og sat Blöndal bæði árin í nefndinni. Af vorum vitra og Íslendíngum velviljaða konúngi, Kristjáni hinum 8., var Blöndal sömuleiðis kjörinn fulltrúi á alþíngi Íslendínga, sem sami konúngur hafði sjálfur stofnsett. Þessari köllun gegndi Blöndal á hinu fyrsta alþínginu, sumarið 1845, og fór þá á stað frá heimili sínu mjög lasinn, því hann hafði rúmfastur legið að undanförnu; en honum entist ekki aldur til að gegna þessari köllun optar. Enn fremur vottaði Kristján 8., að hann þekkti og viðurkenndi verðleika Blöndals, með því þann 26. dag júnímánaðar 1846 að sæma hann með kansellíráðs nafnbót, og jeg tel það víst, að einginn, sem manninn þekkti, hafi þótt sá heiður ofgefinn, eða ofsnemma veittur.

Á það er hjer að framan vikið, að Blöndal hafi verið góður búhöldur, og er það á gildum rökum byggt; en óhætt er líka að fullyrða, að ekki mundi bú hans eða efnahagur hafa borið þar um slíkan vitnisburð, sem hann bar, hefði ekki kona hans staðið svo ágætlega í sínum sporum, sem hún stóð, hefði hún ekki verið svo stök dugnaðar-, umsjónar- og framkvæmdar-kona.

Þetta fann hann líka sjálfur vel, því hann sagði opt við kunníngja sína, þegar tilrætt varð um gróða hans og búhag, að blómgun búhagsins væri dugnaði konu sinnar og tekjunum miklu fremur að eigna, enn búviti sínu eða dugnaði í þeim efnum. Og embættistekjurnar voru að vísu miklar, en Blöndal þurfti líka á miklu að halda, því bæði kostaði hann miklu til byggínga á heimili sínu, og ljet sjer jafnan annt um, að allt sem búið meðþurfti, utan húss

og innan, væri í sem beztu standi; svo var gesta aðsókn mikil á heimili hans, sem leiddi af embættisstöðu hans, einkum þar vinsælt og úrskurðargott yfirvald átti í hlut; og þar á ofan var hann mikill fjölskyldumaður: móður sína og teingdamóður annaðist hann í elli þeirra, þá fyrri algjörlega, hina að nokkru leyti; og sjálfur varð hann mikill ómegðarmaður, því þau hjón áttu saman 15 börn, hverra 11 lifðu föðurinn. Þessum sínum mörgu börnum til andlegra framfara og menntunar sparaði hann eingan kostnað; hjelt hann jafnan menn lærða, annan til embættisskripta, en hinn einúngis til að kenna börnum sínum, og mátti um þessa ræktarfullu umönnun hans fyrir börnum sínum segja með sanni: að hvorki vantaði viljann nje máttinn. Þessi börn eru eptir aldri talin:

1. Björn Lúðvíg, fæddur 10. dag októbermán. 1822; hann byrjaði fyrst skólalærdóm, en þar eð hann reyndist frábitinn þesskonar námi, en fremur hneigður til smíða, þá kom faðir hans honum til hins nafnkunna, mikla trjesmiðs og dugnaðarmanns Þorsteins Daníelssonar á Skipalóni, til að læra trjesmíði eða það svonefnda „snikkara handverk“; býr hann nú giptur, sem handiðnarmaður í Reykjavík.
2. Sigríður Oddný, fædd 15. dag októberm. 1824; hún nam bæði heima hjá foreldrum sínum og í Reykjavík það standi hennar sæmdi, og námfýsi hennar hæfði, og er nú gipt sóknarpresti sjera Sigfúsi Jónssyni á Tjörn á Vatnsnesi.
3. Jón Auðunn, fæddur 7. dag nóvembermán. 1825; hann nam fyrst skólalærdóm í foreldra húsum, fór svo í Bessastaðaskóla, og var þaðan útskrifaður seinasta vorið sem skóli var þar hald-

inn, 1846, með bezta vitnisburði, og er nú námsmaður í prestaskólanum í Reykjavík.

4. Halldóra, fædd 27. dag októbermán. 1826; hún dó tæplega ársgömul.
5. Benedikt Gísli, fæddur 15. dag aprílmán. 1828, byrjaði fyrst skólalærdóm, en hætti við hann, og er nú heima hjá móður sinni henni til aðstoðar; var hann af föður sínum álitinn gott búmannsefni.
6. Magnús Bjarni, fæddur 6. dag aprílmán. 1830; lærði hann fyrst skólalærdóm heima, og er nú í Reykjavíkurskóla.
7. Guðrún, fædd 6. dag marzmánaðar 1831, dó tæpt mánaðargömul.
8. Þorlákur Steffán, fæddur 19. dag aprílmán. 1832, lærði skólalærdóm heima hjá móður sinni, og hefur nú feingið sæti í Reykjavíkurskóla.
9. Augúst Theódór, fæddur 14. dag maímán. 1833, hann dó á 1. ári.
10. Gunnlaugur Pjetur, fæddur 1. dag júlímán. 1834, lærði skólalærdóm heima hjá móður sinni, en nú er honum veitt sæti í Reykjavíkurskóla.
11. Augúst Theódór, fæddur 23. dag ágústmán. 1835, byrjar skólalærdóm heima.
12. Lárus Þórarinn, fæddur 16. dag nóvembermán. 1836, er heima í móður húsum.
13. Anna Soffía Guðrún, fædd 21. dag janúarmán. 1838, varð þriggja vikna.
14. Jósep Gottfreð, fæddur 10. dag maímán. 1839, og
15. Páll Jakob, fæddur 27. dag desembermán. 1840, báðir heima í móður húsum.

Blöndal var aldrei heilsusterkur maður, en helzt fór hann að finna til einhverrar óhreysti innvortis, þegar hann var kominn nálægt fertugsaldri; hann var opt ófrískur, þó hann væri á ferli, og lá

nokkrum sinnum rúmfastur, þó aldrei eingi í senn; einkum kenndi hann á seinustu árum sínum óhreysti fyrir brjóstinu; voru líka bræður hans og fleiri ættmenn brjóstveikir. Þegar hin minnilega og mannskæða „mislíngasýki“ æddi hjer yfir landið sumarið 1846, og lagði nálega hvern mann í rúmið, og marga í gröfina, þá lagði hún einnig Blöndal í banasængina, og gegndi hann þó embættisverkum sínum leingur enn hann hafði líkamaþrek til. Og það var þessi „mislíngasýki“, þessi lífs og heilsu óvinur, sem skildi Blöndal við þessa heims störf, og flutti hann frá þessu jarðneska þraunga sjónarsviði, svo hann feingi litast um á öðru fegra og stærra, og unnið þar að æðri störfum; þetta bar að 23. dag júnímánaðar; skorti hann þá 4 mánuði og 18 daga á 59 ár; en sýslumaður hafði hann verið í 26 ár, lifað í hjónabandi í 25 ár. Mörgum varð fregnin um lát hans átakanleg sorgarfregn, og fór það að líkindum, því þar var eptir miklum manni að sjá. Jarðarförin fram-fór 7. dag júlímánaðar; var þar viðstaddur fjölmennur líkskari, gátu þó ekki allir komið, sem til var ætlazt, sökum mislínga-veikinnar. Prófastur sjera Jón Jónsson í Steinnesi hjelt heima í stofunni „húskveðju“ áður enn líkið var þaðan úthafið; þar næst á eptir ætlaði höfundur ágrips þessa að tala nokkur orð, en það fórst fyrir, því þá lagðist hann í mislíngunum, og gat hvergi farið, en sendi það seinna, sem hann ætlaði að tala. Þegar líkið var komið í kirkjuna á Undirfelli, hjeldu þeir, sjera Jón í Steinnesi og sjera Jón Eiríksson á Undirfelli, sína ræðuna hvor yfir kistunni. Svo er nú tilætlað, að allar þessar ræður fylgi ágripi þessu, og getur það verið því fáorðara, því ræðurnar lýsa hinum sæla höfðíngja, en þó svo, að þeir sem bezt þekkja hann, munu ekki álíta þar neitt oflof á hann borið, heldur einúngis vel verð-

skuldað hrós; eins og líka flestir munu kannast við, að það er í allan máta tilhlýðilegt, og ekki meira enn skyldugt, að heiðra þann mann lífs og liðinn, sem lifir heiðarlegu og þörfu lífi, og stendur með slíkum sóma í skyldusporum sínum, bæði á heimilinu og í embættisverkunum, eins og Blöndal gerði. Jeg get þá vísað til líkræðanna um það, hvílík hetja af embættismanni hann var, hvílíkur ektamaður, hvílíkur faðir, og hve skilið hann átti það, að hans væri saknað af öllum þeim, sem hann var í einhverju sambandi við.

Á líkkistu lokinu var negldur hvolfdur tinskjöldur, og var á hann þetta letur grafið:

Fjalir þessar geyma
andvana líkama góðfrægs höfðíngja
BJARNAR AUÐUNNSSONAR BLÖNDALS,
sýslumanns Húnvetnínga;
hann fæddist 1787,
varð sýslumaður 1820,
giptist 1821.

---

*Hann var fyrirtaksmaður stjettar sinnar:*
*vitur, stjórnsamur, rjettlátur, árvakur*
*embættismaður,*
*ástríkur faðir, ræktarfullur ektamaki.*
*einlægur, tryggur, ráðhollur vinur,*
*staðfestu- og stillingar-maður í öllu ráðlagi.*
*Hann dó 23. dag júnímánaðar 1846.*
*En menjar hans og minning mun leingi lifa*
*í verðskulduðum heiðri.*

S. N.

Nú skal að endíngu fátt eitt minnast á ytra álit Blöndals, lundarlag hans, viðmót og gáfnalag.

Hann var með hærri mönnum á vöxt, 68 þuml-

ínga á hæð, og varð gildur eptir hæð, áður hann þykknaði af holdum, sívalur, en ekki breiðvaxinn, beinn og útlimanettur, og heldur beinasmár — sem kallað er — eptir vexti. Andlitið var kríngluleitt, vel fallið og jafnt við sig; nefið ekki stórt, en heldur hafið að framan; munnurinn og hakan sátu vel; augun ljósblá og heldur smá, augnaráðið stöðugt og hið blíðasta, þegar hann var í glöðum huga, en hvasst og alvarlegt, þegar hann var í þúngu skapi. Hann var rjóður og sællegur í andliti, en aldrei mjög þykkleitur. Hárið var hálfbjart, þykkt og nokkuð hrokkið. Yfirhöfuð var maðurinn mikið þekkilegur, fríður og fyrirmannlegur, framgángan og látæðið jók þar líka á, sem jafnan var stillt og siðsamlegt. Rómurinn var fullur og skemmtilegur, og teljast mátti hann með betri saungmönnum, bæði hvað rómsæld og lagsæld snerti. Málfærið var sjerlega liðugt, og gat hann breytt því með rómnum og framburðinum eins og hann vildi. Hversdagslega var hann fátalaður og afskiptalítill um smá atvik á heimilinu, og var það jafnan auðsjeð, að hann hafði embættisverkin í huga sjer í smáu og stóru. Við kunníngja sína var hann í viðmóti og viðræðum sjerlega viðfelldinn og skemmtilegur, og var honum það mjög tamt, að krydda þá tal sitt með siðsamlegu og hnittilegu spaugi og smá gamansögum, sem altjend áttu vel við umtalsefnið, og bar þetta ljósan vott um smekk og gáfnalipurleik hans. Bæði var hann í viðræðum, ritum og öllu háttalagi tilgerðarlaus, jafn og einlægur, hafði heldur eingar mætur á neinskonar prjáli, óþörfu skrauti nje viðhöfn, en ljet sjer nægja það, sem hreinlegt og staðgott var; var þetta auðsjeð bæði á búníngi hans, húsakynnum og húsbúnaði, eins og hann líka var sparsemdar- og hófsemdarmaður um alla hluti, seint og snemma æfi sinnar.

Framan af æfinni hefði mátt segja, að fátæktin hefði kennt honum sparsemina, jafnvel þó alkunnugt sje, að hún kennir hana ekki öllum, og í fátækt sinni rjeðist hann þó til að sigla, og kunni þá svo vel að fara með lítið, að hann komst vel af á háskólanum með það, sem hann þá gat áunnið sjer, því ekki var annað við að styðjast; efnaða náúnga eða aðstoðarmenn átti hann ekki, en þeir, sem nema hina dönsku lögvísi, njóta ekki — eins og kunnugt er — styrktar frá vísindastiptana sjóðum Dana. Þegar Blöndal var kominn til embættis og hafði feingið góð laun, mátti líka sjá, að hann kunni ekki síður að fara með meira, gæta þess og hagnýta það skynsamlega, því þó hann hefði mikla fjölskyldu og ómegð að annast, og sparaði eingan kostnað börnum sínum til menntunar, hefði við þá rausn bæði á heimilinu og í ferðalögum, sem standi hans sómdi, þá græddist honum þó töluvert fje; en líkt eða það sama verður ekki öllum jafndrjúgt í höndum, og sannast þar hið fornkveðna: „skiptir um hver á heldur.“

Að lundarlagi og sinnisfari var Blöndal sjerlega stilltur og gætinn; ljet hann sjer annt um, að gæta hins sanna og verulega í hverjum hlut, og að vanda öll sín verk eptir megni, þó aldeilis fordildarlaust; varði hann tíðum miklum lestri og lángri umhugsun til þess, sem honum þótti vandasamt. Þó það bæri til, að honum þætti fyrir, þegar hann átti við þá að stríða, sem frekir og ósvífnir voru, þá stillti hann sig þó jafnan vel, svo það mun varla verða með sanníndum sagt, að honum yrði skapbrátt.

Þarámóti var hann heldur þjettlyndur og fastur á meiníngu sinni í hverju sem var, og það var víst einginn hægðarleikur, að tala honum hugarhvörf. Einlægur og hreinlyndur var hann, og hafði aldrei annað á vörunum enn í hjartanu; og þegar hann á-

stundum sýndist vera dulur á meiníngu sinni, þegar hennar var leitað í því, sem á nokkru reið, þá kom það einúngis af þeirri forsjálu varasemi, sem manninum var svo eðlileg og töm; en jafnan þegar ráð voru til hans sótt, lýsti sjer einlægni hans og ráðhollusta; var hann líka nærgetull um margt, og þekkti menn vel, enda urðu ráð hans jafnan að góðu haldi. Vinum sínum var hann tryggur og áreiðanlegur, og fyrir sýslubúum sínum hinn umhyggjusamasti; vildi hann yfirhöfuð efla framfarir þeirra, einkum hvað atvinnuvegu snerti, og hjálpa þeim með hollum tillögum og góðum ráðum, sem bágstaddir voru, og er eitt til dæmis um það ráðleggíngin sem á er minnzt í Sunnanpóstinum 3. árg. bls. 74, o. fl. Og af þessum rökum var það, að hann hafði mætur á öllum þeim, sem hann sá að voru þarfir og duglegir fjelagsmenn og máttu vera öðrum til fyrirmyndar og hvatníngar í því, sem mörgum horfði til nytsemdar.

Það mun óhætt að fullyrða, að Blöndal var með betri gáfumönnum, eins og hann líka átti ætt til, því hann var af námsfólki kominn; ljetu sig líka snemma góðar gáfur til náms og greindar hjá honum í ljósi. Hann var af náttúrunni laglega hagorður, en á seinni árum sínum fór hann mjög dult með það, en mikla skemmtun hafði hann af fallegum kveðskap, og honum var trúandi til þess, að þekkja það vel kveðna og laklega í sundur; og jeg hef aldrei þekkt mann fljótnæmari eða minnugri á ljóð enn hann. Skilníngsgáfu hafði hann líka ágæta, og þó hann væri, eins og sumir góðir gáfumenn eru, ekki tiltakanlega fljótskarpur, þá skildi hann þó hvert mál vel, þegar hann hafði hugað það vandlega; og embættis aðgjörðir hans, einkum dómaraverkin, báru ljósastan vottinn um það, og þau eru þá undireins til merkis um hvað vel hann vissi lögin, og hve ljósan skiln-

íng hann hafði á þeirra sönnu meiníngu; enda munu þeir hjeraðsdómararnir vera teljandi, ef nokkrir eru, sem hafi átti því optar að fagna enn hann, að dómar þeirra væru algjörlega staðfestir, eða ekki breytt í neinu verulegu, fyrir hærri dómstólum, og er það þó sannast, að sum málin, sem hann prófaði og dæmdi, voru bæði margbrotin og vandasöm, og brot hinna seku svo á sig komin, að þeir urðu að dæmast að álitum *(arbitrairt)* til lagarefsíngar.

Til bóknáms var Blöndal alla sína æfi hneigður, og eptir það hann var til embættis kominn, og hafði margt að vinna og um að annast, þá varði hann til bóklestra öllum þeim stundum, sem honum urðu afgángs frá nauðsynja störfum, þegar hann þurfti ekki að gegna eða skemmta gestum sínum; og jafnaðarlega las hann í rúmi sínu heima lángt fram á nætur.

Þannig var Blöndal ágætur maður og einkar vel fallinn til að standa í þeim sporum, í hver hann af guðlegri forsjón var settur, og hann ávann sjer því bæði virðíngu, vinsæld og traust yfirboðinna og undirgefinna. Nú er þessi merkismaður oss horfinn, og vjer vitum máske enn þá ekki, hvað mikils vjer höfum misst, þar sem hann var, því sjónum vorum er það hulið, hvort eða hvenær þess muni auðið verða, að jafnoki hans að öllu leyti setjist í sæti hans; þakklátlega ber þess að minnast, að vjer nutum hans leingi og vel; menjar hans eru margar og minníng hans ætti leingi að geymast í Húnavatnssýslu og víðar; og til þess eru þessi fáu og einföldu minníngar orð saman sett, að þau styðli til þess, eins og þeim verður auðið, að geyma hans minníngu.

Leiði Blöndals í Undirfells kirkjugarði er auðkennt með legsteini úr hvítum marmara með þessu grafletri:

Hjer er leiddur
BJÖRN AUÐUNNSSON BLÖNDAL,
fæddur 1787,
varð sýslumaður Húnvetnínga 1820,
varð kansellíráð konúngs 1846,
giptur 1821,
dáinn 1846.
Eptirljet sjer 11 efnileg börn, og orðstír frægan,
því hann var:
árvakur, stjórnsamur, rjettlátur og þrekmikill
embættismaður,
ástríkur, umhyggjusamur, hollur og tryggur
ástmennum, náúngum, vinum, sýslubörnum,
reglusamur og staðfastur í öllu sínu ráði.

*S. N.*

---

# I.

# HÚSKVEÐJA,

haldin af prófasti sjera **Jóni Jónssyni**

á Steinnesi.

---

Þú ert hjá oss í allri neyð, alvoldugi og algóði faðir vor! það er vor einka hugsvölun á sorganna dimmu dögum; það er það eina sem getur gefið oss þrek til að bera mæðu og þrautir þessa lífs, að vjer vitum að þú ert hjá oss, og yfirgefur oss ekki, heldur varðveitir oss, hjálpar oss, hugsvalar oss, miskunar oss. Æ! lát oss þá einnig á þessari sorgarstundu finna til þinnar náðar nálægðar; lát hana lækna og friða þau hjörtun, sem nú eru ángráð og firrt miklu fagnaðarefni; lát hana efla og styrkja í sálum vorum þá sannfæríngu, að þú sjert vor faðir og vjer þín börn, ekki síður þegar vjer grátum kristilegum sorgartárum, heldur enn þegar vjer erum glaðir af þinni miskunsemi. Þinn góði andi helgi hjörtu vor, svo þau geymi þær tilfinníngar, sem þjer eru þóknanlegar, og sjálfum oss hollastar, svo að vjer lærum að hegða oss samkvæmt þínum vilja í stríðu, eins og í blíðu. Bænheyr það, góði guð! í Jesú nafni, amen!

Vjer erum þá komnir hjer saman á þessu góð-

frægа heimili, háttvirtu og heiðruðu bræður og systur! og erindi vort híngað í þetta sinn er harla alvarlegt; vjer erum komnir híngað til að hefja út hjeðan andvana líkama þessa mikla manns, og fylgja honum til ens síðasta hvíldarstaðar. Jeg geri ráð fyrir, að yður muni nú öllum vera ríkast í huga, hversu ólík þessi koma vor híngað er þeim komum vorum á þennan stað, er vjer höfum átt að venjast að undanförnu; vjer höfum verið vanir að koma híngað glaðir, og dvelja hjer glaðir og fara hjeðan glaðir; nú erum vjer komnir híngað hryggir, stöndum hjer hryggir, og munum halda hjeðan hryggir; vjer höfum verið vanir að mæta hjer góðfrægum húsföður, sem, ásamt jafn góðfrægri húsmóður, tók vinsamlega og bliðlega móti oss, og gladdi oss, ekki einasta með örlæti sínu, heldur einkanlega með sinni mannúðlegu og ljúfmennskuríku umgeingni, með skemmtilegum og fróðlegum viðræðum sínum; en hversu ólíkt er nú ekki ástatt! allt er hjer hljótt, dapurt, sorglegt; sá, sem áður var vanur að fagna oss, liggur nú fölur nár innan þessara dökku fjala, vjer fáum ekki framar að sjá hann á upprjettum fótum, vjer fáum ekki framar að heyra nokkurt gleðjandi eða lífgandi orð af munni hans. Híngað vorum vjer vanir að sækja holl og góð ráð þegar oss lá á; nú eigum vjer þess ekki framar kost; hjer var opt ráðgast um ýmisleg málefni, sem áríðandi voru fyrir hjerað vort; nú er hinn ráðvitri höfðíngi vor fallinn. Von er til, að oss þyki þetta vera sorgleg umskipti; von er til, að hin alvörugefna þögn minni oss eptirtakanlega á það, sem vjer eigum nú að sakna; von er til, að oss þyki vera orðið skarð fyrir skildi, þar sem vjer sjáum þann hjer látinn, sem hafði áunnið sjer svo almenna ást og virðingu meðal vor, sem vjer álitum með rjettu hinn mesta

mann í fjelagi voru, verndara vorn fyrir árásum og rángsleitni, forgaungumann vorn í öllum almennum vandræðum, hvatamann vorn til góðra og þarflegra framkvæmda, vin og velunnara.

Eins og það er nú viðurkvæmilegt, að vjer setjum oss þetta fyrir sjónir, eins og það er náttúrlegt, að vjer minnumst þess með sárum söknuði og trega; eins er það ekki tilhlýðilegt, að vjer bindum huga vorn við það eingaungu, því vjer erum ekki þeir einu, sem nú höfum orsök til ángurs og hryggðar; sorgin hefur snortið aðra enn sárar enn oss, og vjer vitum allir, hverjum hún geingur og hlýtur að gánga næst; vjer vitum, að sá er hjer fallinn, sem gerði garðinn frægan; vjer vitum, að uppi stendur, eins og einmana, syrgjandi ekkja, af því að sómi hennar og prýði, stoð og stytta, yndi og eptirlæti eru frá henni tekin; sá, sem knýtti hið heiðursverða og farsæla hjónabandið milli mesta merkismanns og mestu merkiskonu, hefur nú aptur leyst þetta bandið — hvað líkamlegar samvistir snertir — leyst það skjótar enn varði; auk þess, sem þvílíkur missir hlýtur að vera líkur sverði, sem smýgur í gegnum viðkvæma og ástríka sálu hennar, sem unni elskhuga sínum af hjarta, og fann sig sæla í sameiníngunni við hann, þá hlýtur þessi sorgaratburður einnig að auka áhyggjur hennar og áreynslu; að vísu hefur guð gefið henni frábæran dugnað í öllum efnum; og — lof sje honum fyrir það! þennan dugnað hefur hún aldrei sparað, og er þarfyrir, að vonum, orðin þreytt og mædd af mörgu; en nú legst á hana þýngsta raunin; áður átti hún öruggt athvarf og öfluga aðstoð; nú er þetta athvarfið, þessi aðstoðin fallin; áður sá hún þann nálægt sjer, sem hjarta hennar elskaði; nú á hún ekki framar kost á að sjá hann í líkamans lífi; sorgleg auðn er í kríngum hana,

þar sem áður var yndi og fögnuður. Þó guð hafi gefið oss öllum mannlegar tilfinníngar, viðkvæmar tilfinníngar, þó hann hafi gert oss eðlilegt, að syrgja með syrgjendum, eins og að fagna með fagnendum, þá þarf samt mikið til að geta sett sig algjörlega í annara spor, og fundið eins glöggt til þess, sem fram við þá kemur, eins og þeir finna sjálfir til þess, því sá veit gjörst er reynir, og einginn veit hvað með manninum býr, nema mannsins andi, sem í honum er; hún, sem nú tregar hinn ástríkasta ektamaka — hún — en einginn annar, nema guð einn — veit gjörla, hvað á hjarta hennar liggur; jeg ímynda mjer, að vjer — að minnsta kosti þeir af oss, sem guðleg mildi hefur vægt fyrir líkri raun — sjáum það aðeins eins og í spegli og ráðgátu; en það, sem vjer sjáum, er samt nóg til að vekja oss tilfinníngu meðaumkunar og hluttekníngar í sorgarkjörum hennar.

Og — ekki einasta í kjörum hennar; því hjer eru líka fleiri nákomnir; vjer sjáum barnahópinn sviptan enum bezta, enum ástúðlegasta, enum umhyggjusamasta föður. Guð hefur lagt ágæta undirstöðu fyrir lífslukku þeirra, sem hann gefur góða foreldra; guð hefur ætlað foreldrunum að vera eins og verndareinglar barna þeirra, að leiðbeina þeim á þann veginn, sem leiðir til tímanlegrar og eilífrar farsældar; en vjer vitum, að það vantar mikið á, að allir foreldrar hafi vit og vilja, ráð og efni til að gera allt sem gera þarf til þess, að þessu mikilvæga augnamiði verði framgeingt; þar fyrir finnum vjer mikla orsök til lofgjörðar og þakklætis við guð, þegar vjer sjáum, að hann hefur gefið einhverjum börnum þá foreldra, sem ekki einasta eru því vaxnir að standa með heiðri straum af þeim, heldur hafa líka nóg ráð og meðöl, sameinuð vilja, til að veita

börnum sínum alla þá menntun, sem þau eru hæfileg til að þiggja, og sem líklegt er að verði undirstaða sannrar velferðar þeirra; það vekur oss mikinn fögnuð, þegar vjer vitum að svona stendur á; en það aflar oss líka mikils ángurs — eins og von er til — þegar börnin missa þvilíka foreldra, missa þá á únga aldri, missa þá áður enn þau eru orðin sjálfbjarga, og verða svo — eins og opt ber við — að gánga ýmsar aðrar leiðir, enn foreldrarnir höfðu ætlað þeim að gánga. Er þá ekki ærið efni fyrir oss, til að samhryggjast af hjarta þeim börnunum, sem hjer eru orðin föðurlaus! vjer vitum sjálfir, að faðir þeirra átti allt það til að bera, sem miðaði til að undirbúa og efla lukku þeirra, og vjer sáum, hvernig hann hafði byrjað það; þó mikið væri nú orðið ágeingt, eptir aldri barnanna, þá var samt mikið eptir ógert, og hver mundi ekki með mestu ánægju hafa sjeð hinn góða föðurinn halda áfram enu byrjaða verki, og fullkomna það! hver mundi ekki með gleði hafa unnt honum að líta ávöxt föðurlegrar umhyggju sinnar fyrir svo efnilegum börnum!

En guðs vilji hefur verið annar enn vor vilji; guð hefur ætlað öðrum að taka við af enum framliðna í þessu, eins og öðru; vjer viljum bera oss að una vel því sem hann gerir, og trúa því af hjarta, að það sje alltsaman harla gott, alltsaman vísdómsfullt og elskuríkt; vjer viljum reiða oss á trúfesti hans, sem aldrei getur brugðizt þeim sem elska hann af hjarta, og vona á hann með öruggu trausti; vjer viljum reiða oss á en huggunarríku fyrirheitin, er hann hefur gefið oss í sínu orði, að hann vilji vera faðir föðurleysíngjanna og forsvar ekknanna; vjer viljum heimfæra til þeirra, sem hjer eiga mestan hlut að máli, hin fagnaðarríku orðin drottins: afhendið mjer hin föðurlausu börnin, og látið ekkjurnar vona á

mig! Ásamt ekkjunum og enum föðurlausu börnunum viljum vjer allir vona á þig, þú faðir miskunsemdanna! og biðja þig að senda þeim og oss þína hugsvölun, þinn frið; æ! send þú þinn hressandi og gleðjandi frið yfir og í þetta sorgarhús, yfir þetta heimili, yfir ena hrelldu ekkju og en hryggu börnin! Send þú öllum nauðstöddum þína alvoldugu hjálp, öllum, sem syrgja, þína dýrmætu huggun! lát oss ávalt reyna: að þú ert vor guð og faðir kær, sem þín börn ei yfirgefið fær. Í Jesú nafni leggjum vjer oss með auðmýkt undir það sem þú vilt á oss leggja; í hans nafni vonum vjer líka, að þú munir af náð þinni gefa oss krapta til að bera það eins og þínum börnum hæfir. Amen, í Jesú nafni, amen!

---

## II.

# RÆÐA,

samin af sjera **Sveini Nielssyni**

á Staðarbakka.

---

*Kenn mjer þá vizku vel svo telja vegferðar minnar daga hjer, að þinn jeg stundi veg að velja, vakni til sælu og lífs hjá þjer. Ó guð! þá dauðans dregst að nótt, deyja gef þú mjer vel og rótt!* Amen!

Jafnvel þó jeg hafi eingu við það að bæta, sem hjer hefur þegar svo ágætlega verið talað; jafnvel þó einginn, sem er viðstaddur, þurfi að fræðast af mjer um það, hvers vegna menn eru hjer hljóðir og daprir, hvers vegna þeir horfi með hryggu yfirbragði á þessa líkkistu, þá leyfi jeg mjer samt, úr því jeg hef verið ásamt öðrum híngað kvaddur, með fáum orðum að láta í ljósi, hvaða tilefni vjer höfum í dag til að vera daprir, hvers vegna mjer þykir þessi dagur vera hátíðlegur hryggðardagur. Hverjum þeim manni, sem ekki hefur ofurselt sálu sína hugsunarleysi og gjálífi, verður að þykja það alvarlegt tækifæri, þegar hann er sjónarvottur að því, að systkyni hans eru borin til sinnar seinustu hvíldar, eða búin til að leggjast í skaut jarðarinnar,

af því þessi er leiðin, sem fyrir oss öllum Adams niðjum liggur, þennan veg eigum vjer allir að gánga, þegar stundin er komin, fram fyrir dómstól hins heilaga og rjettláta, til að standa reikníngskap á því, sem sjerhver hefur aðhafzt í líkamans lífi, hvort sem það var gott eða illt.

Vegna þess að líkkistan og gröfin minna oss jafnan átakanlega á það, að lífið hjer á jörðu er stutt en eilífðin laung, þá hvarflar hugur vor hjer yfir líf hins framliðna, að því leyti vjer þekkjum til þess, og vjer hugsum um það með sjálfum oss, hvernig hann í lífinu hafi búið sig undir eilífðina — hvernig hann hafi varið því pundinu, sem honum var til meðferðar feingið — hversu dyggilega hann hafi gætt þeirrar köllunar, sem hann var af guði í settur, sjer og öðrum til heilla; og eins og vjer getum ekki gert alla jafna í þessu tilliti, meðan þeir lifa, svo getum vjer ekki heldur gert alla jafna, þegar þeir eru látnir. Útför hans, sem mönnum gat ekki betur sýnzt, enn hvorki lifði guði, sjálfum sjer nje systkynum sínum, er að því leyti altjend merkileg, að hún ávarpar oss með röddu áminníngarinnar og viðvörunarinnar; og hversu merkileg mætti oss þá ekki vera útför hans, sem með stakri trúmennsku, heiðri og dugnaði varði hjer sitt rúm. Mjer þykir því, sem vjer höfum gild rök til að álíta þennan dag hátíðlegan hryggðardag, því vjer erum nú búnir til að fylgja til grafarinnar líki vors heiðraða yfirvalds, sýslumanns Blöndals.

Virðíngin, sem einúngis fylgir stjett mannsins — því vjer eigum að gjalda þeim heiður, sem heiður heyrir — skilur vanalega við hann í dauðanum; en hin virðíngin, sem sjerhver ávinnur sjer með mannkostum sínum, sem getur af sjer elskuna — hún fylgir líkinu til grafarinnar, og minníngunni, þó lík-

ið rotni í gröfinni. Það er því maklegt, að jarðarför þessa sæla höfðingja sje auðkennd með því, að venju leingur sje tafið við líkkistu hans, að því sje berlega yfir henni lýst — eins og líka gert hefur verið — hvílíkur maður hann var í lífinu, sem hjer liggur látinn. Það er búið að útlista það snillilega, hvílíkur sjónarsviptir var að honum hjeðan, hversu þetta heimili, hvers aðalprýði og máttarstólpi hann var, hefur sett ofan við hans fráfall; hversu mikils þeir hafa misst, sem honum voru nánastir. Og þeir hafa misst svo mikils, að þeirra missir er vissulega óbætanlegur hjer í lífi. Einginn getur því ætlazt til, að þeir geti borið harm sinn í hljóði. En — þeir eru næsta margir, sem hjer hafa mikils misst, sem óvíst er að auðnist að fá skaða sinn að fullu bættan, þó þeir beri harm sinn í hljóði, því sýslumaðurinn sálugi var afbragðsmaður í sinni stjett. Þetta held jeg mjer yrði hægast að leiða fyrir sjónir og sanna með því að bera það saman, hvernig sýsla þessi leit út, þegar hann við henni tók, og hvernig hún lítur nú út. Vegna þeirra dauðu vil jeg fara sem fæstum orðum um það, hvernig sýsla þessi leit út, þegar sýslumaðurinn sálugi tók við henni. Hún hefur leingi haft orð á sjer fyrir það, að hún væri helzta sýslan í Norðurlandi; en einhverjum skugga eða myrkva var um það leyti farið að bregða yfir þetta frægðar-orð; og það var ekki að orsakalausu, því stjórnleysi, óregla og ódáðir ætluðu um þær mundir að slíta hana í sundur; óráðvandir umhleypíngar og fífldjarfir ofbeldismenn óðu hjer uppi eins og illhveli, þeir drógu að sjer sína líka, og fleiri, sem þó voru ekki eins spilltir, slæddust í þennan óaldarflokk. Margir óskuðu þá af heilum huga, að lagfæring gæti á þetta komizt, og hún komst líka á. Viðurkenna megum vjer það, skylt er oss að þakka

honum það, sem öllu stjórnar með speki og gæðsku, og lætur bæði gott og illt fá þau afdrif, sem honum þykja hagkvæmust, að hann tók hjer í taumana, og sendi híngað þann manninn, sem bæði hafði viljann, vitsmunina og kjarkinn til að laga það sem í ólagi fór — þá hetjuna, sem fær var um að ráðast á og stökkva þeim óaldarflokki, sem hjer vildi með óstjórnlegu sjálfræði sínu eyða allri reglu, slíta öll bönd — sem óspekti og hrelldi svo margan góðan og spaklyndan mann. Og sýslumanninum sáluga var ekki heldur ókunnugt um, þegar hann híngað fór, hvað það var, sem hann tókst í fáng; en — eins og sannur kjarkmaður hopaði hann ekki fyrir vandanum, erfiðinu, háskanum, heldur gekk einbeittur að verki köllunar sinnar, og hafði sjer það fyrir reglu, að gera það, sem hann var sannfærður um að rjett væri, og hræðast eingan. Eptir spaklegri og farsælli ígrundun sinni sá hann, hvar hann skyldi byrja á; mjer eru enn í minni orð hans, með hverjum hann einusinni ljet mjer í ljósi, hvers hugar hann var um þær mundir. Hann vildi reynast trúr og duglegur í sinni köllun, hann vildi sýslubörnum sínum vel; hann vildi vanda verk sín, og hann ávann sjer líka bæði innanlands og utan frægðarorð fyrir rjettsýni, vizku, árvekni, stjórnsemi, alvörugefni og vandlæti. Líklegt þykir mjer, að sýslubúum hjer gleymist ekki bráðum, hversu hollur hann var þeim, hversu annt hann ljet sjer um allar þær framfarir þeirra, sem hann gat haft nokkur áhrif á — hvílíkur úrskurðarmaður hann var, þegar hans var til þeirra efna leitað — hversu úrræðagóður, þegar óvænlega áhorfðist. Ætti jeg hjer orðastað við ókunnuga, væri mjer innanhandar að leiða hjer að sönnunar dæmi; en í þessu samkvæmi er þess ekki þörf. Hafi jeg nokkurn tíma þekkt þann mann, sem ljet sjer annt um, að

hver maður nyti rjettar síns, þá var það hann; hann annaðist málefni ekkjunnar og hins munaðarlausa; þegar gánga átti á hluta auníngjanna og einstæðíngjanna, þá var honum þar að mæta, og þeir voru heldur ekki varnarlausir, sem hann varði. Þess vegna báru líka hinir aumu og voluðu og lögræníngjarnir kveinstafi sína upp fyrir honum með góðri einurð og trausti, og ofbeldis- og óeyrðar-mönnum stóð af honum geigur. Hvergi hefur mjer virzt vitsmunir, dugnaður og gæfa verða betur samfara enn hjá honum. Skarpleikinn í gáfunum og stillíngin og staðfestan í lundarlaginu hjálpuðust að til þess að gera ígrundunina sanna og ljósa; þetta sýndi sig í öllum embættisverkum hans, en einkanlega í dómaraverkunum, sem þó voru opt margbrotin og vandasöm, en sem þó sjaldnast var breytt fyrir æðri dómstólum; og það er athugavert, því að það lýsir gáfnaþreki mannsins, að þeir margbrotnustu og vandasömustu dómar hans stóðu flestir óbreyttir fyrir æðri dómstólum, eins og líka víðfrægt er orðið.

Stjórnsemi og friðsemi álíta sumir innbyrðis gagnstæðar, og það getur verið, að svo líti út á stundum. En þessi sæli höfðíngi sýndi það þó í framferði sínu, að þær geta með bezta samlyndi búið báðar í sama húsi og í sama brjósti, því hvorttveggja var hann, stjórnsamur og friðsamur. Hann leiddi ekki hjá sjer, hann ljet til sín taka, þegar almenníngs heill krafði; en innbyrðis ágreiníng manna leitaðist hann við að jafna sem rjettast, sæmilegast og kostnaðarminnst fyrir þá, sem í hlut áttu. Jeg veit, að sá er einginn hjer, sem draga vilji af sýslumanninum sáluga það hrós, sem hann svo heiðarlega ávann sjer með árvekni sinni, vizku og dugnaði, reglusemi og góðvilja; jeg veit að allir vilja þakklátlega viðurkenna, hvílík heill sýslu þessari

stóð af honum, hvílík umskipti nú eru á henni orðin frá því sem var, þegar hann tók hjer við sýslustjórn. Guð gaf, og guð svipti; hans nafn sje vegsamað! Ekki ætla jeg mjer nú að minnast á það, hvaða álit konúngar vorir á honum höfðu — það sýndu þeir sjálfir berlega með því að kjósa hann bæði í embættismanna-nefndina í Reykjavík og á alþíng vort — eða í hvaða metum hann var hjá næsta yfirmanni sínum; heldur vildi jeg loksins drepa á það, hvílíkur hann var börnum sínum og vandamönnum.

Af slíkum staðfestu- og stillíngar-manni var eptir því að vænta, að hann væri ekki allra vinur, í orðsins vanalegu merkíngu; og það var hann ekki heldur; en — hann var vinur vina sinna, þeim var hann einlægur, tryggur, ráðhollur, þá aðstoðaði hann með ráði og dáð, og fyrir þeirra velferð, sem hann hafði einusinni að sjer tekið, bar hann stöðuglega umhyggju. Og hvílíka umhyggju, hversu ástúðlega umhyggju hann hafi borið fyrir konu sinni og börnum, þar um vil jeg ekki margt tala; hryggð hans eptirþreyjandi ekkju ber þess ljósastan vottinn, að hún finnur til þess, hversu mikils hún hefur misst; jeg veit það, jeg finn til þess, hvað hennar viðkvæma hjarta hefur nú að bera; en hvað feginn sem jeg vildi, get jeg ekkert borið með henni af byrðinni, sízt svo, að henni verði nokkur ljettir að, og má jeg þó, og margir aðrir með mjer, játa, að hún væri þess makleg, ef unnt væri að ljetta undir þessa byrði með henni, hún, sem er svo brjóstgóð og hjálparsöm. Það er hvorttveggja, að þessi mikla merkiskona á ekki allmarga sína líka; enda vissi vor sæli höfðingi það, fann til þess og viðurkenndi það, hvílíkan dýrgrip hann ætti þar sem kona hans var, og ljet það jafnan ásannast. Hann grunaði það leingi, að hann mundi verða hjeðan kallað-

ur á undan henni, og hann vildi því búa sem bezt hann gat um hennar hagi eptir sinn dag. Og hvað skyldi jeg geta sagt yður til huggunar, hæstvirta ekkja! Bæði í gleði og sorg leitar hjarta þess guðelskandi til föðursins á himnum, sem veitir allar góðar gjafir, sem gleður og lífgar oss með meðlætinu, en hneigir huga vorn frá þessum heimi og gæðum hans með mótlætinu, til þess að reynsla trúar vorrar verði fullkomin. Hann hefur verið yðar athvarf og unaðsemd á æsku - og fullorðins - árunum, og jeg veit og þekki, að þjer viðurkennið með auðmýkt og klökku þakklæti, að hann hafi híngaðtil verið yðar sól og skjöldur[1], að hann hafi leitt yður miskunsamlega og dásamlega, frá því þjer til munið, í gegnum blítt og strítt, svo að þjer jafnvel nú á þessum hryggðardögum viljið af hjarta taka undir með þeim margreynda guðsmanni, sem forðum kvað: „lofa þú drottinn, sála mín! og gleymdu eingu af öllu því góða, sem hann hefur þjer gert“; og sannarlega hefur drottinn veitt yður mikið gott, með mikilli náð hefur hann yður sæmt, og þjer hafið líka hjarta til að finna til þess, og að viðurkenna það, sem og líka, að þó þjer hafið nú mikils misst, þá eigið þjer þó mikið eptir. Og í hverju skyldi nú hjarta yðar finna sætari unaðsemd enn í því að minnast á guðs velgjörnínga við yður híngaðtil, og varpa yður með barnslegu trausti og elsku í hans miskunar faðm, sem öllum börnum hans er útbreiddur, sem til hans koma í Jesú nafni; og gleðilegt er fyrir yður til þess að hugsa, að hann hefur lofað að annast ekkjurnar, og taka að sjer föðurleysíngjana; þjer getið því horft á barnahópinn yðar, og sagt: „drottinn er minn hjálpari, jeg skal ekki kvíða“ já! þjer getið þetta, því þjer berið þann huggarann í brjóstinu, sem er mjer miklu málsnjallari og mátt-

ugri yður að hugga, jeg meina meðvitund yðar um það, hvernig þjer hafið híngaðtil staðið í yðar skyldu sporum, hvernig þjer reyndust yðar sæla ektamanni, hversu viðkvæma ást, hjartanlega umhyggjusemi og alúðlega aðstoð þjer auðsýnduð honum heilbrigðum og sjúkum; dyggðin er jafnan sín eigin verðlaun, já! hún launar, þegar mest á liggur, og það skal yður nú reynast!

Hafi jeg nokkurn tíma þekkt ástúðlegan og umhyggjusaman föður, þá var sýslumaðurinn sálugi það, í orðsins fyllsta skilníngi. Því mátti viðbregða, hversu glaðlegur og skemmtilegur hann var við kunníngja sína, en aldrei sá jeg hann þó glaðari og ánægðari enn hjá börnunum sínum. Hversu mikla alúð hann lagði á menntun þeirra og andlegar framfarir, er alkunnugt; það átti þar heima, að hvorki vantaði viljann nje máttinn; en honum entist ekki aldur til að fullkomna það sem byrjað var; grundvöllinn var hann búinn að leggja svo vel og rækilega sem unnt var.

Þau einföldu orð, sem jeg hef hjer flutt, eru ekki töluð í því skyni, að halda uppi minníngu sýslumannsins sáluga; þau eru ekki þess umkomin, heldur áttu þau að vera lítilfjörlegur ræktarvottur við hinn látna höfðíngja og náúnga hans; jeg vildi með þeim, að því leyti þau gætu til náð, auðkenna þennan dag, og þessa jarðarför; jeg vildi með þeim kveðja þann framliðna vin í seinasta sinni. Farðu þá vel! elskaði og heiðraði höfðíngi, bezta yfirvald, trúfastasti og hollasti vinur! Jeg þakka þjer í líkkistunni og gröfinni fyrir það, hvílíkur þú reyndist mjer; en jeg ber ekki þetta þakklæti einúngis fram í mínu nafni, heldur einnig margra annara, og minníngu þína viljum vjer geyma í verðskuldaðri ást og virðíngu; þín skal jafnan getið verða eins og mikils merkismanns, ættarblóma og stjettarprýðis!

Lof sje þjer, himneski faðir! fyrir það, að þú gafst oss þvílíkt yfirvald á hentugasta tíma — fyrir það, að þú gafst honum að vinna svo mikið og svo leingi — að þú blessaðir svo ríkuglega vilja hans og viðleitni — að þú kallaðir hann hjeðan á hentugasta tíma — gafst honum þá ánægju, að sjá æskilega ávexti iðju sinnar, og kallaðir hann hjeðan til guðs barna hvíldar, þegar hann var tekinn að þreytast — kallaðir hann ekki í burtu að hálfnuðum lífdögum, og lagðir ekki heldur á hann að bera heilsuveikan og ellihruman líkama. Allt gerir þú vel, miskunsami faðir! eptir speki þinni og gæðsku gefur þú og sviptir! í allri þinni stjórnun viljum vjer með lotníngu og þakklæti kannast við þína föðurumhyggju fyrir oss.

Blessaðu, faðir! hvert verk, sem dyggilega er unnið — unnið í þínu nafni! Blessaðu niðja vors sæla framliðna! Blessaðu þetta hjerað og þetta land! Gef þeir, sem ráða yfir oss, eflist að dyggðum sönnum. Blessa þú oss alla á sálu og lífi! Blessaðu oss dagana, sem vjer eigum eptir ólifaða hjer á jörðu — þeirra tala er hjá þjer — Gefðu oss náð til að verja þeim til þess að vinna með dyggð og trúmennsku verk vorrar köllunar, meðan dagur endist, svo vjer getum ætíð verið hughraustir, og öruggir hugsað til næturinnar, sem er í nánd, getum verið ókvíðnir, þó drepsóttarinnar morðeingill hafi dauðans ógurlega sverð á lopti, og felli systkyni vor oss til beggja hliða; já, að vjer sjeum öruggir og fagnandi í trúnni á son þinn og hans fyrirheit, að sá, sem hjer var trúr yfir litlu, skal á ódauðleikans landi verða leiddur inn í fögnuð herra síns, og settur yfir mikið. Amen!

# III.

# LÍKRÆÐA,

haldin af prófasti sjera **Jóni Jónssyni**

á Steinnesi.

---

Algóði guð og faðir vor á himnum! í þjer lifum, erum og hrærumst vjer; af náð þinni hefur þú gefið oss þetta líf, og af náð þinni kallar þú vorn ódauðlega anda heim til þín, þegar þinn tími er kominn. Æ! faðir! verði á oss vilji þinn! það er gott að fara til þín, þegar þjer þóknast; og þó það skeri hjörtu vor sárt að sjá þeim á bak, sem voru vort athvarf og eptirlæti, sem skinu eins og ljós í myrkri, sem þjónuðu þjer með trú og dyggð, og kappkostuðu að útbreiða heill og blessun umhverfis sig — þá viljum vjer samt varast að mögla gegn þjer, að vera óánægðir með þínar ráðstafanir, því vjer vitum, að þær eru æfinlega vísdómsfullar og gæðskuríkar. Þó þú sjert oss opt hulinn guð, þá sjáum vjer samt í trúnni endurlífgandi geisla þinnar guðdóms ástar, þinnar eilífu trúfesti.

Rótfest hjá oss, himneski faðir! þetta hugarfar, svo að vjer tökum með auðmýkt og auðsveipri undirgefni undir þinn vilja því, sem oss finnst ógeðfelt,

sárt og sorglegt. Bænheyr það, guð minn góður! í Jesú nafni, amen!

Ást og virðíng hafa leitt mig í þessi spor; ást á og virðíng fyrir hinum framliðna höfðíngja, að hvers útför vjer erum hjer saman komnir, og alltaðeinu ást á eptirlifandi ástmennum hans, og virðíng fyrir tilmælum þeirra; ei að síður finn jeg og kannast við, að jeg er ekki vaxinn því, að standa í þessum sporum, eins og í þeim ætti að vera staðið, því hjer er eptir þann mann að mæla, að vandasamt er að láta útfararminníngu hans sambjóða hans merkilegu, heiðurs- og lofs-verðu æfi. En það er bót í máli, að minnst ríður á þeim orðunum, er jeg tala hjer, því jeg tala hjer ekki í áheyrn ókunnugra manna, eða þeirra, sem lítið þekktu til starfa og mannkosta hans, sem hjer er látinn; heldur tala jeg í áheyrn yðar, sem allir voruð honum kunnugir, og margir af yður handgeingnir, og sumir góðvinir hans; og jeg er viss um, að einginn er hjer staddur, sem ekki beri í brjósti sínu aðalatriði þess, sem viðurkvæmilegast er að minnast á við þetta tækifæri, þegar vjer, að líkamlegum samvistum, segjum algjörlega skilið við þennan höfðíngja vorn, vin og velgjörara. Það er nú náttúrlegt, að í hjörtum allra vor búi fyrst og fremst sorgleg umhugsun þess, hversu dauðans ósigrandi vald sigrast á öllu því, sem lífs anda dregur á jörðunni, hversu allir verða að falla fyrir aðförum hans, hversu hann þyrmir eingum, göfugum eða ógöfugum, ríkum eða fátækum, vitrum eða einföldum; hversu að ráðvendni og dugnaði og hyggindum, og atgjörfi sálar og líkama eru settar skorður hjer á jörðu, svo að sá, sem berst fyrir rjettlætið, fyrir velferð bræðra sinna og systra, fyrir heill fósturjarðar sinnar, hlýtur opt og tíðum að uppgefast mitt í sínum þarflegu, heillavænlegu, heiðursverðu

framkvæmdum, hlýtur opt að leggjast til ennar síðustu hvíldar, þegar þeir, sem njóta góðs af störfum hans, óska og vona, að guð spari hann ennþá leingi í þjónustu sinni á jörðunni til eflíngar almennra hagsælda.

Um þetta getum vjer ekki annað enn hugsað með sorg og söknuði, þegar vjer minnumst þess, að lífsins óvinur vann hjer sigur á því lífi, sem hver ráðvönd og hyggin og elskurík manneskja hefði án efa óskað af hjarta, að leingur mætti endast, og sem vjer allir vonuðum að guð mundi spara talsvert leingur oss til gagns og gleði; því að vísu mun öllum hafa komið óvart sá boðskapurinn, sem bar þeim til eyrna sorgarfregnina um fráfall ens almennt heiðraða og elskaða yfirvalds þessarar sýslu; en það verður einatt hlutskipti vort að heyra það, sem vjer bjuggumst sízt við, það, sem aflar oss ángurs og trega; og sýnir það oss harla eptirtakanlega, hve fallvalt og hverfult og óáreiðanlegt allt er á þessari jörðu. Guð hefur veitt oss mörg og mikilsverð gæði hjer í lífi, en hann hefur áskilið sjálfum sjer að ráða því, hve leingi oss skuli verða auðið að njóta þeirra; eingin af oss veit, hvenær hinn alvaldi herra kann að heimta aptur lán sitt; þarfyrir ber oss að njóta þess, meðan oss veitist það — að njóta þess með lofgjörð og þakklæti við gjafarann allra góðra hluta; en hversu vænt sem oss þykir um það, og hve hjartanlega sem oss lángar til að fá að búa sem leingst að því, þá verðum vjer samt og eigum að búa oss undir að sleppa því, þegar guð vill svo vera láta — að sleppa því án óánægju og möglunar; því vjer værum óþakklátir við guð, ef vjer ljetum oss koma til hugar að ásaka hann fyrir það, að hann tekur það sem hans er, þegar hann er búinn að unna oss að njóta þess

leingi, búinn að láta það veita oss marga fagnaðar og hagsælda stund; oss er að sönnu ekki láandi, þó vjer tregum missir vorn, því það er samkvæmt mannlegu eðli, samkvæmt mannlegum tilfinníngum; en vjer eigum samt ekki að gleyma því, að vera þakklátir við guð fyrir það, sem hann hefur gert oss gott; vjer eigum að minnast þess, að allar velgjörðir hans við oss eru veittar oss af hans einskærri náð, en ekki fyrir sakir vorrar eigin verðskuldunar. Þegar vjer athugum þetta, þá hljótum vjer að finna oss skylt, að láta lofgjörð og vegsemd vera í fyrirrúmi fyrir výli og kveinstöfum, þegar drottinn hryggir oss með missir þess, er hann af miskun sinni hafði gefið oss til eflingar farsæld vorri. Undireins og vjer þarfyrir hljótum að rifja upp fyrir oss við þetta tækifæri hinn sára og sorglega missir, sem snortið hefur oss allasaman, snortið alla innbúa þessarar sýslu; undireins skulum vjer minna oss á, hve mikið vjer eigum guði að þakka fyrir það, að hann gaf oss þvílíkt yfirvald; vjer skulum fylgja vini vorum til ennar síðustu hvíldar, hryggir — eins og maklegt er — útaf því, að oss auðnaðist ekki leingur að njóta samfylgdar hans á lífsins leið, að njóta liðveizlu hans og leiðsagnar, hjálpar hans og ráðaneytis, ljúfmennsku hans og lífgandi umgeingni; en við þessa eðlilegu hryggð vora viljum vjer líka sameina lofgjörð glaðværra hjartna vorra — glaðværra útaf þeirri gæfu, sem guð ljet oss í skaut falla, og gaf oss svo leingi að njóta; glaðværra útaf enu mikla og þarfa dagsverki, sem þessi trúlyndi erindsreki drottins leysti af hendi; glaðværra útaf þeirri dýrðlegu umbun, sem vjer vitum að hinn rjettláti dómari alls holds hefur sæmt hann með fyrir svo ötula og ótrauða þjónustu í víngarði hans.

Þegar miklir menn verða úr þeim, sem bæði eiga ættgöfgi og nógan auð við að styðjast, þá gleður það oss að vísu, bæði af því, að oss þykir þá fara eins og fara eigi, og líka af því, að mörg eru dæmi þess, að útaf því ber; en vjer furðum oss samt ekki á því, þó þeir komist vel áfram í heiminum, sem nóg hafa meðöl til þess; þarámóti finnum vjer orsök til að dást að því, þegar einhverjum spilast vel úr litlu, þegar einhver ryður sjer braut í gegnum marga erfiðleika og torfærur til frægðar og frama, til þeirrar stöðu í mannfjelaginu, sem mikla verkun hefur á almenna hagsæld; vjer hljótum að bera mikla virðíngu fyrir hverjum þeim, sem fer vel með það, sem honum er af guði gefið, og brúkar það honum til dýrðar, og til að efla heillir bræðra sinna og systra í heiminum. Í hvorutveggja þessu tilliti var sýslumaðurinn sálugi, Björn Auðunnson Blöndal, eptirtektavert munstur: hann var sonur fátækra foreldra, sem áttu mörg önnur börn; er því líklegast, að það hafi — næst guðlegri forsjón — einkanlega verið að þakka hans góðu náttúrugáfum, að honum auðnaðist að komast á mennta veginn; hann skundaði þennan veginn líka trúlega; hann var útskrifaður úr Bessastaðaskóla með heiðarlegum vitnisburði fyrir stilltar og gætnar gáfur, góðar framfarir í bókmenntum, og siðprýði. Nú var ekki annað sjáanlegt, enn að forlög hans mundu verða en sömu, eins og annara fátækra stúdenta, að verða að hætta við lærdómsiðkanir; árferðið var erfitt, efnin eingin, og erfiðleikarnir til að ná meiri frama sýndust vera ókleyfir; en sá maður átti hjer í stríði, sem ekki ljet bugast, þó óvænlega áhorfðist, sem með ráðdeild og þreki greiddi sjer veg gegnum margar torfærur; hann bjargaði sjer með handafla sínum — með líkamlegu erfiði og áreynslu, unz sá, sem stjórnar kjör-

um mannanna eptir sínu órannsakanlega ráði, opnaði honum veg til þeirrar auðnu, er hann hafði búið honum. Í fyrstunni sýndist þessi vegur ekki vera árennilegur, en hönd drottins leiddi farsællega þann, sem veginn átti að gánga; enda gegndi hann líka bendíngum guðlegrar forsjónar, og færði sjer vel í nyt þau tækifærin, sem guð gaf honum til undirbúníngs gæfu sinnar á ókominni tíð; hann lauk af lærdómsiðkunum sínum í lögvísi við háskólann með heiðri; og guð, sem þángaðtil hafði haldið í hönd með honum, sleppti nú ekki heldur af honum sinni mildu verndarhendi; hans forsjónar auga vakti eins þá, eins og áður, yfir högum hans; hann leiddi hann í þjónustu hjá þeim manni, sem bæði hafði vit á að meta mannkosti hans, og hæfilegleika til meiri framkvæmda, enn honum hafði áður gefizt kostur á, og líka vilja og álit til að mæla fram með honum til að öðlast það embætti, sem veitti honum svo maklega umbun fyrir stríð og áreynslu umliðinnar æfi, og sem allir, er hlut áttu og enn eiga hlut að máli, hafa mestu orsök til að þakka guði fyrir að komst í þvílíks manns hendur. Það vita allir — og sjerílagi er það kunnugt eldri mönnum, hversu margt gekk óskipulega og óreglulega til í hjeraðinu áður enn hann tók hjer við völdum, hversu óeyrða - og óknytta - mönnum voru settar litlar skorður, og hversu þeir all - leingi eptir komu hans leituðust með öllu móti við að fara sínu fram náúnganum til tjóns; já, hver getur sagt, hve víða illgresið var búið að festa rætur um þær mundir! En þá sást það líka, að sá maður var seztur við stýrið, sem ljet til sín taka, sem var jafn þrekmikill til að gánga á hólm við ofbeldið, eins og hann var hygginn og vitur til að sjá við vjelum og undirferli; bráðum tók illþýðinu að standa ótti af honum; og þó ósvífnin bæri óttann

ofurliði á einstöku stað, þá varð hann samt aptur yfirsterkari; því það yfirvald átti þá hlut að máli, sem ekki sá í gegnum fíngur við lesti og ódyggðir, heldur ljet laganna refsíngu gánga yfir þá, sem uppvísir urðu að illri breytni, án manngreinar álits. Hver, sem nú ber ástand þessara tíma, í því tilliti sem vjer eigum nú tal um, saman við það ástand, sem var fyrir 26 árum síðan, þegar vor sæli sýslumaður tókst embætti sitt á hendur, og við það ástand, sem var á hans fyrri embættisárum, hann á hægt með að sjá mismuninn — hann á hægt með að láta sjer skiljast, hvílík guðs gjöf það er, að eiga gott, duglegt, stjórnsamt yfirvald. Jeg held að allir, sem til þekkja og rjett á líta, sjeu á einu máli um það, að sýslumaður sálugi Blöndal hafi sameinað í sjer alla þá kosti, sem skapa ákjósanlega gott yfirvald; og þessa kosti mætti, ef til vill, í stuttu máli innibinda í orðunum: rjettvísi, árvekni, reglusemi og umhyggjusemi fyrir almenníngs hag; í öllu þessu var hann lofsverð fyrirmynd þeirra, sem yfir aðra eru settir: rjettvísin var hans æðsta regla í öllu, sem hann gerði, hún stóð honum til beggja handa í dómarasætinu, og leyfði honum ekki að víkja vitund frá því, sem hann vissi að rjett var og vera átti, og það hverjir helzt sem í hlut áttu. Þessi sama rjettvísi var alltaðeinu leiðarstjarna hans í öllum viðskiptum hans við aðra; hann vildi að hvern skeði rjett; eins og hann vildi að aðrir stæðu í þeim skilum, sem þeim bar að standa, eins hafði hann nákvæmar gætur á því, að láta eingan eiga neitt hjá sjer annað enn bróðurlegan kærleika. Eingu síður var hann árvakur í embætti sínu, í öllu, sem hann vissi að var skylda sín; hann hafði stöðugar gætur á því, og ljet það ávalt vera í fyrirrúmi fyrir öllu öðru, svo að

hann hlífði ekki einusinni heilsu sinni, þar sem skyldan var annars vegar, heldur synjaði sjer opt um nauðsynlega hvíld, til að fá komið því í verk, sem gerast átti. Reglusemi hans mátti heita einstök í öllum efnum, bæði þeim sem komu við embætti hans, og þeim sem áhrærðu viðskipti hans við aðra, eður heimilisháttu hans; hann ljet hvað eina ske á sínum tíma, frestaði því ekki til morguns, sem hann gat framkvæmt í dag; og hann kastaði ekki heldur hendinni til starfa sinna, heldur vandaði þau með dæmafárri alúð, eins og þeim er kunnugt, sem þjónuðu honum í embættis störfum hans; hann var líka nær og fjær orðlagður fyrir það, hve vel það væri af hendi leyst, sem frá honum kom; og fyrir meðferð þeirra mála, sem álitin voru næsta vandasöm, ávann hann sjer mikinn heiður. Umhyggja hans fyrir almenníngshag var mikil og lofsverð, eins og kunnugra er, enn um þurfi að tala; það sem hann áleit þarflegt, því vildi hann fá framgeingt, og stuðlaði til þess með ráði og dáð; hann var ætíð fús á að heyra talað um alþjóðleg málefni, og lagði jafnan til það, sem viturlegt var og byggt á djúpsærri umhugsun; hann var einginn jábróðir, og fremur fastheldinn við meiníngu sína, en þó næsta auðveldur til að fallast á annara, ef hann fann, að hún var byggð á góðum rökum; sjerílagi ljet hann sjer vera umhugað um það, sem honum þótti miða til eflíngar velferð sýslubúa sinna, og því tók hann jafnan góðan þátt í stjórn og fyrirkomulagi allra þeirra málefna, sem snertu almenníngs hag; enda var öllum kært að eiga hann að til ráðaneytis og fulltíngis. Embættis dugnaður hans og hyggindi sættu ekki einasta athygli þeirra, sem næstir honum voru, heldur veittu yfirmenn hans hvorutveggja eptirtekt með virðíngu, og stjórninni var það ekki heldur ókunnugt, eins og auðráðið er

af því, að konúngur vor ljet hann vera einn í tölu enna helztu embættismanna þessa lands, sem hann kvaddi til að ráðgast um ýmisleg málefni miðandi landinu til framfara og hagsælda, og þaráeptir var hann af konúngi kjörinn til að vera á þjóðþíngi landsins, eins og vjer vitum allir. Hann var einnig mikill mennta og vísinda vinur, svo að fáir af eldri mönnum munu geta hrósað sjer af því, að þeir hafi fylgt tímanum eins vel og hann; mitt í sínum margbrotnu embættis-önnum las hann mikið í ýmsum fræðibókum, og það eingu síður hin síðustu ár æfi sinnar enn hin fyrri. Jeg veit þjer kannizt allir við, að það, sem jeg hef híngaðtil sagt, er í eingu ýkt, og jeg veit líka þjer finnið, að hjer er ekki nema aðeins drepið á það, sem sanna mætti með mörgum dæmum, er vjer þekkjum allir; en jeg vona samt, að orð mín megi til að lífga þá tilfinníngu, sem jeg að sönnu veit að lifir í hjörtum yðar — tilfinníngu þess, að vjer eigum hjer að sjá á bak enu bezta, stjórnsamasta, rjettvísasta, árvakrasta og reglufastasta yfirvaldi.

En eins og þessi sæli höfðíngi vor var mesti merkismaður í því, sem á er vikið, eins var hann líka mikill lánsmaður; eða var það ekki lán, hvernig hann komst áfram til auðs og upphefðar, þar sem eingin líkindi voru til annars, enn að hann mundi leingi eiga að stríða við fátækt, og að ekki mundi bera meira á honum enn hverjum öðrum af þeim, sem voru á líku reki og hann? Guð hafði líka búið honum enn meira lán; hann hafði ákvarðað að gefa honum þá konu, sem allir eru á einu máli um, að fáa eigi sína líka — þá konu, sem veitti svo ágæta forstöðu fjölskyldu-heimili hans, þar sem hann, bundinn svo miklum og mörgum embættisönnum, gat svo opt lítil afskipti haft af heim-

ilis-stjórninni. Þessa merkiskonu gekk hann að eiga 22. dag september-mán. 1821, og hefur því hjónaband þeirra varað hálft 25. ár; þetta hjónaband blessaði guð með 15 börnum, af hverjum 11 eru á lífi, og mörg af þeim úng, en þó öll efnileg og mannvænleg; og hver viðurkennir ekki, að þetta sje mikil blessun, mikið lán? enda var sá maklegur þess, sem það hlaut; því hvílíkur ektamaki — hvílíkur faðir var hann ekki? Hún, sem mest hefur misst við fráfall hans, veit bezt að meta, hvers hún á að sakna, og þó vjer stöndum nokkuð fjær, þá getum vjer einnig farið nærri um það; og mörg af börnunum eru komin svo til vits og ára, að þau finna, hve ástríkan föður guð hefur tekið frá þeim, og jafnvel enum ýngstu mun ekki vera það ókunnugt, því börnin vita snemma, hvað við þau er átt; mjer fannst það ávalt fögur sjón og þýðíngarmikil, þegar hinn æruverði faðir var umkríngdur af enum fagra barnahópnum, og þegar ástin og vonin stóðu eins og afmálaðar í augum og andliti hans; jeg þarf ekki að bæta því við, sem hvert mannsbarn veit, að hann sparaði eingan kostnað börnum sínum til sómasamlegrar menníngar, af hverjum hann þegar var búinn að láta leiða allmörg á vísinda veginn. Jeg ætla ekki heldur að fara mörgum orðum um mannúð hans og ljúfmennsku; aðeins vil jeg spyrja: var nokkur manneskja svo umkomulítil, að henni stæði ekki opinn aðgángur til hans? var hann ekki fús til að líta á nauðsyn hvers sem var? var hann ekki ráðhollur við hvern, sem leitaði ráða hjá honum? mátti ekki hver einn láta honum opinskátt í ljósi meiníngu sína? sameinaði hann ekki við honum náttúrlega alvörugefni einkar blítt og þægilegt viðmót? stjórnaði hann ekki geði sínu meistaralega? Það munu líka þeir kannast við, sem veitt hafa því eptirtekt, og

einkanlega þeir, sem reyndu það, að hann var hinn tryggasti vinur vina sinna; og mjer ber við þetta tækifæri að minnast með skyldugu þakklæti þeirrar staðföstu tryggðar, einlægni og vináttu, sem hann sýndi foreldrum mínum, sem jeg veitti eptirtekt þegar á únga aldri, og sem jeg sannfærðist æ betur og betur um, eptir því sem mjer auðnaðist meiri aldur og vit; og það sem hann hafði auðsýnt föður mínum, meðan hann lifði, það sama auðsýndi hann móður minni og börnum hennar, eptir hans dag, og það ekki sízt mjer, sem hann var því ástúðlegri, sem við kynntumst meir, og áttum fleira saman að sælda.

Þvílíkur höfðíngi er þá horfinn fjelagi voru — horfinn að líkamlegum samvistum; en minníng hans mun lifa, lifa í blessun meðal vor, lifa í blessun jafnvel á ókomnum öldum. Guð tók hann frá oss á hans 59. aldurs ári — oss finnst ofsnemma — en þó án efa á hagkvæmasta tíma; því guð gerir aldrei annað enn það, sem bezt er og hagkvæmast. Guð tók hann — segi jeg — viðkvæmasta hjúkrun hans ástríku ektakonu, og en alúðarfyllsta viðleitni þess manns, sem guð hefir gefið oss, svo mörgum á meðal vor, til lífs og heilbrigði — hvorugt þetta gat varið hann dauðans aðförum, því dauðinn var sendur af herra lífs og dauða — af alvöldum guði, til að sækja það sem hans var — til að kalla sinn trúlyndan erindsreka, að sönnu frá mikilvægum störfum, en samt til annara mikilvægari; að sönnu frá því lífi, sem í mörgu tilliti var honum gleðiríkt, en samt til annars lángtum gleðiríkara, lángtum sælla lífs; hann erfiðaði trúlega og kappsamlega í víngarði drottins hjer á jörðu; þarfyrir hefur nú guð leitt hann inn til sinnar eilífu hvíldar, og sæmt hann af náð sinni umbun trúrra þjóna.

Gefum þá guði dýrðina í þessu sem öðru; lút-

um í auðmýkt speki hans vega, og tilbiðjum hans órannsakanlega ráð með heilagri lotníngu; felum honum harma vora og hjarta þúnga, og berum oss að una vel því sem hann vill vera láta. Varðveitum í þakklátum hjörtum endurminníngu hans, sem oss var svo kær, sem vjer eigum svo margt gott að þakka; og undireins og vjer samhryggjumst af hjarta syrgjandi ástmennum hans, undireins skulum vjer renna hugskotsaugum vorum inn í drottins dýrðar-ríki, og samfagna frelsaðri sálu vinar vors með þá dýrð og vegsemd, sem hún nýtur þar um aldir alda.

Ó, þú alvaldi guð og faðir vor! þú sem gafst oss svo mikið, og tókst svo mikið frá oss; vjer viljum í trúnni lofa og vegsama þitt nafn; vjer viljum auðmýkja oss undir þína volduga hönd, og ekki mögla gegn þjer, þú algóði guð! En vjer biðjum þig, að þú virðist af miskun þinni að senda þinn blíða huggunar anda í hjörtu þeirra, sem syrgja og gráta svo dýrmætan ástvin! vjer biðjum þig, að þú virðist að senda oss í hans stað þann, sem þitt alskyggna auga sjer að bezt er vaxinn því að fylla það skarðið, sem hjer er orðið autt! vjer felum oss og allt vort ráð í andlegum og líkamlegum efnum á þitt miskunar vald, í öruggu trausti þess, að þú munir alla hluti vel við oss gera! Þjer sje lof og dýrð frá eilífð til eilífðar! Amen, í Jesú nafni, amen!

---

# IV.

# LÍKRÆÐA,

samin af sjera **Jóni Eirikssyni**

á Undirfelli.

---

Drottinn! þú, í hvers hendi að er blitt og strítt, líf og dauði; þú, sem að setur manninn á jörðina, fær honum verk að vinna, lætur hann líða bæði blitt og strítt, bera þar hita og þúnga dagsins, og kallar hann svo aptur frá vinnu sinni, þegar þjer þykir tími til, þegar undirbúníngs- og erfiðis-tími hans er á enda, þegar hann hefur aflokið því verki, sem honum var feingið að vinna; gef þú oss, að því optar vjer sjáum aðtektir dauðans og finnum sjálfir til þeirra, að vjer því rækilegar búum oss undir burtför vora af þessu landi dauðlegleikans! Gef, að vjer í tíma athugum, að, því betur og trúlegar sem vjer afljúkum voru ætlunarverki, þess meiri verður vor ánægja yfir oss sjálfum, þegar vjer lítum til burtferðar vorrar, því rólegri vor andi, stöðugra vort hugrekki og trúnaðartraust á þínum náðar-fyrirheitum, og að vjer því glaðari gaungum til hinnar síðustu hvíldar, af því vjer vitum, að annað æðra og betra líf tekur við, þegar þetta slokknar! Ó, faðir! lát þá burt-

flutníng vorra systkyna, vorra vina og vandamanna vekja oss af svefni andvaraleysisins til að vinna það, sem vjer vinna eigum, svo vjer getum huggað oss við þau náðarríku orð, sem þinn sonur talaði: „þú góði og trúlyndi þjónn, þú varst trúr yfir litlu; jeg vil setja þig yfir meira; gakk inn í fögnuð þíns herra!“ og heyrum þau til vor töluð, þegar vjer komum fram fyrir þinn dóm. Amen!

„Eia! þú góði og trúlyndi þjónn, þú varst trúr yfir litlu; jeg vil setja þig yfir mikið; gakk inn í fögnuð þíns herra!“ Þessum orðum talaði drottinn vor og endurlausnari, þegar hann var að skýra tilheyrendum sínum frá sambandi því, sem væri á millum þess nærverandi og hins komandi lífs, millum tímans og eilífðarinnar, stundlegra starfa mannanna og hins eilífa endurgjaldsins, sem að vísu biði allra, en sem þó takmarkaðist eptir því sem þeir hefðu á náðar- og undirbúnings - tímanum varið þeim pundum, sem hann eins og húsfaðir og herra hefði feingið þeim í hendur til að verzla með. Hann, sem þekkti hjörtu mannanna, vissi hvað þeir voru gleymnir og hugsunarlitlir um sitt andlega ásigkomulag, og leitaðist þessvegna við að innræta áhángendum sínum á margan hátt það sem sjerhvers meðvitund talar einnig í brjósti hans, það nefnilega, að maðurinn sje skapaður til æðri ákvörðunar enn þeirrar, að lifa hjer einúngis stutta stund, og að hverfa síðan, án allrar ábyrgðar fyrir tilverknað sinn og án alls endurgjalds fyrir hann, hvort sem verk hans voru heldur góð eða vond; að hann megi því ekki, meðan lífs- og vinnu - tími hans vari, vera sjálfráður lífs síns, nje frjáls á þann hátt, sem hans holdlega mann fýsi til, heldur sje undirgefinn og þjónustu bundinn hinum eilífa húsföður, sem einnig sje faðir regluseminnar og góðrar hegðunar, sem úthluti verk-

um milli þjóna sinna, hvort sem þau sjeu veglegri eða óveglegri í augum heimsins, og segi þeim eina: gjör þú þetta, og hinum öðrum: vinn þú hitt; að þeir sjeu bundnir undir lög þessa húsföðurs, eptir hverra fyrirsögn þeir eigi að vinna það, sem þeir vinna eigi, og að húsfaðirinn líti grannt eptir, hvernig unnið sje, og launi loksins með kærleika og rjettlæti á endurgjalds-tímanum, eptir því sem verkið er unnið og því aflokið. Og — hver finnur ekki samsinníngu þessa háleita og rjettvísa lögmáls í brjósti sínu! Hver finnur ekki, að hann sje kallaður og leigður til þess að þjóna í víngarði herra síns, og að hann megi því ekki standa iðjulaus, nje grafa pund sitt í jörðu, meðan tími sje til að erfiða, því erfiðis-tíminn sje opt stuttur, en aldrei of lángur til undirbúníngs undir það eilífa, en ætíð nóg að vinna! Það er ekki þjónanna sjálfra að velja um, hvert verk að húsfaðirinn úthluti þeim, heldur er það hans að velja hverjum einum það verk, sem hann sjer að þeir eru, hver á sinn hátt, bezt vaxnir til að vinna og afljúka, svo launin verði þess æðri og inndælli. En hvert sem verkið er — og þó eitt sje reyndar veglegra enn annað, þá fylgir því einnig meiri vandi, þúngi og ábyrgð — þá er þó sjerhvert úthlutað og vel unnið verk veglegt fyrir drottni, og því er það þjónsins að vinna að því með trúmennsku og alúð, eptir skuldbindíngu rjettlætisins, því það heimtist af sjerhverjum þjóni, að hann sje trúr og geri það, sem rjett er; annars er hann ótrúr og ónýtur þjónn, sem stendur iðjulaus í víngarðinum, og eyðir degi lífs síns til ónýtis, þángað til húsfaðirinn kemur — opt á óvæntri stundu — og kallar hann óviðbúinn fram fyrir sig til þess að taka gjöld vinnu sinnar. Og sorgleg reynsla sannar, að þeir eru þó til, sem straumur tímans ber þannig athugalausa áfram og fram að hinu síðasta takmarki,

sem gleyma himninum og sjálfum sjer, en binda huga sinn við hjegómann og það, sem svalar þeirra dýrslegu laungun, sem leita guðs á þeim vegum, sem hann er ekki að finna, eyða hinum háleitu kröptum sálar sinnar í dárakæti heimsins og því, sem er fjandskapur gegn guði, og eru þó í þessu ásigkomulagi ánægðir með sjálfa sig, og vænta á uppskerudeginum að heyra hið fagnaðar-ríka ávarp: „eia! þú góði og trúlyndi þjónn, þú varst trúr yfir litlu; jeg vil setja þig yfir meira; gakk inn í fögnuð þíns herra!“ En — ó, börn dauðans! hvað hugsið þjer þó, þjer, sem daglega sjáið hans aðtektir, og hvernig hann varpar daglega systkynum yðar burtu hjeðan til þess að meðtaka hin algjörðu laun eða straff tilverknaðar síns! Viljið þjer þá enn ekki gefa gaum að því, að þjer sjeuð leigðir, og sjerhverjum yðar feingið verk að vinna; að dagur lífsins sje stuttur, en nóg til að vinna; að kvöldið komi, þá eingin geti framar erfiðað, og sjerhver verði að leggjast til sinnar síðustu hvíldar eins og hann er undirbúinn og á sig kominn? Eða — væntið þjer þá að finna lífið á vegi dauðans, eða að uppskera blessunarríka ávexti af villi-sáðinu? eða getið þjer vonazt eptir því af húsföður yðar við yður sjálfa, sem yður sjálfum þykir ósanngjarnt við hina ótrúu þjóna yðar? Ó, minn guð! Svo sem jeg verð þess hvervetna var, og finn það sjálfur daglega í brjósti mínu, hvað gleðilegt það er, í þessu hinu breytíngarsama lífi að flytjast áfram vel undirbúinn, til þess að geta því betur tekið á móti því ókomna, og svo sem jeg veit, að það fyllir sjerhvers rjett-kristins manns sálu gleði og rósemi, þegar hann finnur, að hann hefur daglega aflokið því eptir mætti og vilja skapara síns, sem hann átti af að ljúka, svo veit jeg einnig ásamt þeim, að þetta hefur þó mestar og sælastar verkan-

ir, þegar kemur að hinu síðasta takmarki, og yfirgefa á vini og veröld þessa; því hvað er dauði og eymd, ef það er ekki á því takmarki að líta til baka og sjá alla vanrækt skyldna sinna og hins góða, að sjá það allt ógert, sem gerast átti og gert varð, en horfa fram til hins vissa endurgjalds, sem hvorki gefur þá gleði nje von! Og hvað er parámóti líf og gleði, ef það er ekki að vera sjer hins góða meðvitandi, að finna það, að þó margt sje ógert, sem gerast átti og gert varð, hafi þó ekki vantað viljann og viðleitnina undir bæn og ákallan til guðs um hjálp og aðstoð þartil. Þeir sem eru sjer þessa meðvitandi, þeir kvíða ekki kvöldinu meira enn hinn lúni erfiðismaður, sem búinn er að bera hita og þúnga dagsins, og á ekki annað eptir, enn að taka við laununum og endurnærast af hvíldinni; þeir vita, að þeir að eins hafa bústaða-skipti til að taka á móti æðri og fagrari launum, sem þeir vegna Jesú forþjenustu muni njóta; þeir þakka guði fyrir það, að hann gaf þeim lífið, ljeði þeim þrótt til að vinna að ætlunar verkinu, og hjálpaði þeim til að vinna það, því þeir vita, að þó hann taki lífið aptur, þá muni hann gefa þeim annað æðra og betra líf eptir fjörbrot dauðans. Þeir vinna því meðan dagurinn til vinnst, og hinir æðri kraptar hreifa sjer ávalt hjá þeim, sem hvetja þá til háleitra og nytsamra fyrirtækja, öðrum til gagns og farsældareflíngar, og sjálfum þeim til yndis og fagnaðar, eptir stöðu sinni og stjett þeirri, sem þeir þjóna í.

En til að njóta þessa fagnaðar stöðugt, til að geta verið trúr og gert verk sinnar köllunar þannig, að maðurinn sje ávalt ánægður yfir sjálfum sjer, útheimtist þetta tvennt, að hann elski húsföðurinn, sem hefur leigt hann, og hafi þá skyldurækt til sjálfs sín, að hann ekki einúngis vilji, heldur einnig leggi ástundun á að gera sig launanna

verðugan. Og — hvað er maðurinn, hvað er líf hans á jörðunni, og hverju góðu, háleitu og nytsömu getur hann til vegar komið, ef hann vantar þetta? og þó er það það sem marga vantar; þeir fram leiða líf sitt án elskunnar til guðs og án farsælandi elsku við sjálfa sig, og af þessu flýtur það, að mörg störf mannanna, sem í sjálfum sjer eru háleit og vegleg, vanhelgast vanhelgra höndum, og verða til tjóns og niðurdreps bæði þeim, sem þau á hendi hafa, og líka mannlegu fjelagi; því það er elskan til guðs og skylduræktin við sjálfan sig, sem ekki leyfir manninum að hugsa um hjegómann og dárakæti heimsins, heldur bindur hann til þess, sem er æðra og háleitara, minnir hann ávalt á það, að hann sje ekki sjálfráður lífs síns, heldur háður þeim til þjónkunar, sem allt vald sje gefið á himni og jörðu, og að sá dagur komi, þegar minnst vari, á hverjum hann eigi að gera honum skil á hugsunum sínum, orðum sínum og gjörðum sínum, og dregur þannig huga hans frá heiminum og því, sem heimsins er, til himinsins og hins æðra, til að vera í því verki, sem hans föðurs er; hún dregur hann frá heiminum, þó ekki á þann hátt, að hann hætti að vera það í heiminum, sem hann eptir ákvörðun lífs síns á að vera, heldur þannig, að hann leitar fyrst guðs ríkis og hans rjettlætis. Sá sem þannig geymir elskuna til guðs og skylduræktina við sjálfan sig í fersku minni, og hefur gert hana að eign sálar sinnar; hvað mörgu miklu og góðu kemur hann ekki til leiðar á lífs degi sínum, hvort sem hann er leingri eða styttri? Að vísu mætir honum mörg torveldni í skyldu-köllun hans, og margt, sem vill þreyta hann og mæða, því það vonda liggur í stríði við hið góða, og illgresið vill svo opt draga vökvann frá hveitinu, og kæfa það niður. En af því hann elskar

guð og sjálfan sig, og ann hinu góða, og hefur þannig bundið huga sinn við himininn og rjettvísina, en ekki við hjegómann og hið óveglega, þá brýzt hann áfram, líkt hinum hugdjarfa stríðsmanni, til að ná einum sigri eptir annan yfir því vonda, og lætur hvorki ofstopa hinna óhlutvöndu, nje hjegómahrós smjaðraranna, nje táldrægni hinna undirförlu aptra sjer frá að halda áfram ætlunarverki sínu undir merkjum rjettvísinnar, og uppsker þannig, gegnum þreytu og mæðu og þúnga erfiðisins, fagra og farsæla ávexti erfiðis síns, og það einnig hjer í lífi, því guðhræðslan hefur fyrirheit bæði þessa lífs og hins ókomna. Ánægjan yfir því, að geta leyst verk sinnar köllunar sem bezt af hendi, fyllir brjóst hans fögnuði og yndi; sjerhver sigurvinníng, bæði yfir sjálfum sjer og hinu vonda, glæðir fögnuð hans, eykur hjá honum hvöt til þess að biðja guð um aðstoð, að þakka honum hjálpina, og að halda áfram með trúnaðartrausti á hann. Þannig sáir hann í voninni, uppsker í meðvitund góðrar og glaðrar samvizku; hann er því glaðari, sem hann kemur meiru og fleiru í verk, og þessvegna því hughraustari, sem hann finnur að nær dregst burtfarar- og hvíldar-tímanum, því hann finnur, að því meiru sem af er lokið, þess minna er eptir af ætlunarverkinu, og að hann getur því heldur glatt huga sinn, og fundið hvíld sálu sinni í þeim huggunar orðum, sem hann fyrir Jesú forþjenustu væntir að til sín verði töluð: „þú góði og trúlyndi þjónn, þú varst trúr yfir litlu; jeg vil setja þig yfir meira; gakk inn í fögnuð þíns herra!“ og þegar hvíldar- og lausnar-tíminn kemur síðast, þá hugga þessi orð hann, og svala sálu hans, svo hann líður þolinmóðlega og deyr kristilega. En af því hann elskar guð og sjálfan sig með kristilegri elsku, þá uppsker hann einnig í lifanda lífi hina ytri ávexti meðal sinna meðsystkyna,

því þau elska hann, virða hann, aðhyllast hann, þakka honum og feta í hans fótspor, og þó þess sje ekki að vænta, að þau öll gjaldi þeim guðhrædda þau laun, sem hann á skilið, gera þau það þó flest, eða að minnsta kosti allir þeir, sem hafa kristilegt hugarfar, svo að kærleiksbandið við hina góðu og ráðvöndu gerir honum lífið inndælt, og borgar honum þær mörgu þreytu-, ónæðis- og þjáninga-stundir, sem hann verður að verja til gagns og eflingar sjer og öðrum; ástvinirnir lykja augum hans í síðasta sinni með söknuði og þó gleði yfir hans betri umskiptum, af því þeir vita, að hann er leystur frá sorginni og baráttunni til þess að lifa þar sem ekkert stríð er; vinirnir fella saknaðar tár yfir burtför hans; mannlegt fjelag blessar hans moldir, og minníng nafns hans lifir í heiðri á jörðunni.

Því færri sem þeir eru, er þannig lifi, og þannig verji æfidögum sínum, þess meiri missir er að þeim, þegar þeir kallast burtu frá oss; þess meiri von, þó sorg og söknuður fylli brjóst hinna þreyjandi, þegar þeim, sem vörðu æfi sinni til að efla gagn heillra sveita og jafnvel alls landsins, er kippt í burtu úr mannlegu fjelagi á þeim aldri og á þeim tíma, sem allir væntu að væri hinn hagkvæmasti til þess að geta komið sem beztu og mestu til leiðar í mannlegu fjelagi; þess meiri von, þó vjer stöndum daprir og ángráðir yfir því sorgar efni, sem oss er nú að höndum borið, og sem hefur saman safnað oss í hús drottins á þessari stundu til þess að svala sorg vorri, og gráta með grátendum missir vors heiðraða og elskaða yfirvalds og vinar, sýslumanns Bjarnar Auðunnssonar Blöndals. Hjer er fallinn einn höfðíngi í Ísrael, og nær mun hinni dimmu sorgarmóðu, sem við fráfall hans dregur yfir sýslu þessa og fjelag vort, nær mun henni af ljetta! því

hjer er sá fallinn, sem var trúr, sem elskaði guð, elskaði sjálfan sig og mannlegt fjelag með kristilegri elsku, sem bar hita og þúnga dagsins til þess að öðrum liði vel. Hann var að vísu settur yfir mikið — þó það væri lítið móti því, sem hann er nú settur yfir — því hann hafði fjörugar og farsælar gáfur, og svið, samboðið gáfum sínum, til að starfa á; og gæti jeg sagt, að þessi orð: „þú góði og trúlyndi þjónn, þú varst trúr yfir litlu; jeg vil setja þig yfir mikið; gakk inn í fögnuð þíns herra!“ — gæti jeg með vissu sagt, að þau mættu heimfærast til nokkurra þeirra, sem jeg hef þekkt, þá er þessi vor framliðni einn af þeim, einn meðal þeirra fullkomnustu, sem jeg hef þekkt og kynnzt við; því hvort sem vjer lítum til hans sem embættismanns, ektamaka, föðurs, húsföðurs, eða fjelagsbróðurs, þá vann hann verk sinnar köllunar með þeirri trúmennsku, árvekni og árángri, að þess finnast—því miður—færri dæmi. Jeg fer því færri orðum um þetta, sem aðrir, er voru mjer vaxnari að tala hjer, hafa nú samstundis verðuglega minnzt þess, og útlistað það. Til að sýna, hvernig hann stóð í köllun embættis síns, nægir að benda einúngis til ástandsins, sem var í þessari sýslu, þegar hann kom til hennar, og bera það saman við það, sem nú er; því það er nóg til að sanna, að hann bar ekki sverð valdstjettarinnar til ónýtis, heldur til hegníngar illvirkjunum, og þeim til umbunar, sem gerðu hið góða; nægir að minnast þess, að hann fjekk hrós hjá yfirmönnum sínum fyrir embættis-störf sín, og ávann sjer hylli allra þeirra undirmanna sinna, er elskuðu sannleikann; nægir að benda til þess, hvernig hann umskapaði sýslu þessa, eyddi óaldarflokkum illvirkja og ránsmanna, en gerði hana að bústað siðseminnar og góðrar hegðunar, fram yfir það sem von var á, og

fylgdi þó í öllu þessu boði drottins, að fremja rjettvísina með hógværð og mannelsku, og að dæma rjetta dóma. Það voru einnig mjög fáir eða eingir af dómum hans, sem geingu til baka frá hinum æðri stöðunum, að því sem mjer er kunnugt. Jeg gæti farið fleiri orðum hjer um; en — til hvers er að fjölyrða um það, sem kunnugir þekkja og játa, og ókunnugir samsinna af afspurn. Sem ektamaki var hann blíður og hóglátur og tilslökunarsamur, þar sem hann sá, að svo mátti betur fara, trúfastur og ráðhollur, og unni konu sinni blíðum hugástum. Hann var hinn umhyggjusamasti og árvakrasti faðir fyrir menníngu og framförum barna sinna, og sparaði hvorki kostnað nje fyrirhöfn til þess, að þau gætu orðið sem bezt undirbúin til að verða sem trúastir og uppbyggilegastir fjelagslimir, og lagði þannig alhuga á að kenna þeim úngu þann veg, sem þau áttu að gánga, af því hann vænti, að þau með fullorðins - árunum mundu því síður af honum víkja. Sem húsfaðir var hann reglumaður hinn mesti, eins og í öðru, blíður við hjú sín, en þó einarður, þegar þess þurfti við, bar umhyggju fyrir þeirra vel - líðun, og galt þeim á rjettum tíma það sem þeim til heyrði, svo flest af þeim unnu honum. Sem fjelagsbróðir var hann einkar uppbyggilegur, og gaf ekki einúngis gætur að sínu, heldur einnig annara, ráðhollur og staðfastur, sáttgjarn og friðgjarn, þó eitthvað bæri út af; hafði hann þó bæði mikla og bráða geðsmuni, en hann hafði það vald yfir þessum eiginlegleikum sínum, að hann ljet ekki sólina gánga undir yfir reiði sinni, og sagði hann opt bæði við mig og aðra, að það ætti aldrei að skerða sanna vináttu, þó mönnum þætti fyrir hverjum við annan. Hann var hófsamur, og annaðhvort fyrir vana — því hann átti hinn fyrri hluta æfi sinnar opt við

þraungan kost að búa — eða að upplagi aðsjáll, en hafði þó það vald yfir þessu, að öll útlát hans á heimilinu og utan heimilis voru rífleg, og slíkum höfðíngja sæmandi; öll viðskipti hans við aðra lýstu áreiðanlegum og hreinskilnum manni. Hann var viðræðis góður og skemmtilegur, hvort sem hann var heima eða annarstaðar, elskaði dyggð og mannkosti hjá sjálfum sjer, og unni því góða, hvar sem hann varð þess var hjá öðrum. Hann var vin-fastur og vina-vandur, og stuðlaði ekki einúngis sem fjelagsbróðir, heldur sem fulltrúi landsins, til almennings heilla[1].

---

Á bak þessum mikla öldúngi, sem vjer bæði virtum og elskuðum svo heitt, megum vjer nú sjá. Hann þjónaði trúlega, bar hita og þúnga dagsins hraustlega, vakti, þegar vjer svámum, svo oss vegnaði því betur. Þannig syrgir einhver hinn bezti ektamaki, börn, ástvinir og mannlegt fjelag þennan látna tryggð-reynda ástvin. En það er nú sem hann tali til yðar, og biðji yður að gráta ekki yfir sjer, eða að minnsta kosti að halda hóf í harminum, því þjer komið til sín, en hann ekki til yðar, hann sje leystur frá mæðunni og erfiðinu, og hafi öðlast trúrra þjóna verðlaun á landi hinna lifandi. Og þetta á einnig að vera vor huggun. Hann kveður yður þá, heiðraði og syrgjandi ektamaki! þakkar yður fyrir yðar blíðu og óþreytanlegu elsku og umönnun við sig fyrst og síðast, og felur yðar umsjón ykkar blessuðu börn, að ala þau upp í aga og umvöndun til drottins, svo þau geti náð sömu sælu-höfn, sem hann er kominn í. Hann kveður yður, sín ástkæru börn, og biður yður, sem komin eru til vits og ára, að fylgja þeim góða vegi, sem hann

---

[1]) Hjer er sleppt því æfi-ágripi, sem presturinn flutti eptir þennan kafla ræðunnar.

hafi leitt yður fram á, að elska guð og að elska sjálf yður með kristilegri elsku, að annast móður yðar, aðstoða hana og hugga eptir mætti; yður, hin ýngri, biður hann að hlýða móður - áminníngunum, vera henni auðsveipin og hlýðin. Hann kveður yður, vini sína, og þakkar yður fyrir allar þær skemmtunar- og ánægju-stundir, sem hann naut í yðar fjelagi, alla þá hreinskilni og velvild, sem þjer hafið sýnt sjer. Hann þakkar yður, heiðraði læknir! sjerílagi fyrir þá elsku, umönnun og hjálp, sem þjer hafið sýnt honum og hans að undanförnu, og nú síðast í hans þúngbæra dauðastríði. Jeg kveð yður þá í síðasta sinni, minn heiðraði og elskaði framliðni sýslumaður! og þakka yður fyrir þá velvild, sem þjer ávalt sýnduð mjer. — Ó, himneski faðir! hugga þú nú þá syrgjandi, og láttu hið fagra ljós þinna náðar-fyrirheita gleðja sálir þeirra, svo þeir finni þeim hvíld og rósemi hjá þjer! Tak þú að þjer ekkjuna og hina föðurlausu, og vertu þeirra verndari og faðir! Leið þau og oss alla þjer við hönd til þess landsins, hvar einginn skilnaður er, og gef oss öllum að vinna svo í voru kalli og embætti, að vjer fáum þá að heyra hin þýðingarmiklu náðarorð: „þú góði og trúlyndi þjónn, þú varst trúr yfir litlu; jeg vil setja þig yfir mikið; gakk inn í fögnuð þíns herra!“ Amen!

---



# Björn Auðunnsson Blöndal.

## I.

Ei skyldi þökk
þurrum tárum
góðan Baldur gráta!
Mikill er missir
í mæríng þeim,
hjer sem lík er laginn!
Kenndi' eg Blöndal
að kostum frábærum,
sem valdsmann vildum kjósa,
dómara vitran,
dyggan vörð
lands og lýða reglu.
Hafi rjettlætið
sjer hetju átt,
sem skeytti' ei yglibrún skálka,
en vog sakargögn
á vog rjettskerða,
án manngreinar álits;
Þá var það Blöndal,
bjarn-efldur kappi;
til ónýtis bar hann ekki
dragvendil drottins,
og dárum ei leyfði
að hæðast að helgri reglu.
Vissi hann sig guðs þjón
vondum til ógnar,
en góðum til hróss og hlífðar;
hræddist því hrekkvísi,
hopaði frekja,
fór óöld felmtruð saman.
Lítt stöddum hugur
lögræníngjum
efldist, því forsvar áttu;
kúgað meinleysi
krapt fjekk nýjan,
því athvarfi átti treysta.
Hver stýrði slíkur
Húnvetníngum?
Ógleymd hans afrek skulu!
Greinir lastanna
ljótar og margar
af sneið hinu ítra trje.
Ættir þú, land mitt!
alstaðar slíka
syni hans í sæti,
sælli þú mundir,
og mörgum af fyr
ósiðum endurleysast!
Treysti honum jöfur,
og til hann því kvaddi
í vjelhring vandamála.
Tignuðu hann bæði,
treystu og unnu
samtaldir sýslubúar.
Hvar var staðfestu-
og stillíngar-maður,
hvar tryggur vinur vinum,
hvar heilráður
og hreinn ráðnautur,
ef ei Auðunns bur?
Ei skal þökk
þurrum tárum
góðan Baldur gráta!
Minníng Blöndals
í blessun mun
mannsaldra marga lifa!

*S. Níelsson.*

---

## II.

Sorgir margar sældum farga,
sárar fljóta lindir tára,

dauðinn kyni orn eyðir,
ekkjur þúngan kanna ekka.
Þykja máĵ það sízt án saka,
að sígi brún á þíngi Húna:
yfirvaldið frægt á foldu
fjell með heiðri nár að velli.

Blöndals iðja öll var vönduð:
ómyndugum vernd hann sýndi,
rjettar æ með röggsemd gætti,
rjettvíst valdi straffið prettum;
illverka í æði sterku
eldinn vóð hann þolinmóður,
og með stríði ávann friðinn.
Allir gagni hans lýðir fagna.

Forsjáll var hann eins í öllu,
allir ráð hans, sem að þáðu,
sjer til heilla sáu falla,
sinn mest hag þar eptir laga.
Ektakvinnan ángruð sannar
allra mest, að vininn beztan
missti, og börnin mörgu varnar,
því mæt rjeð þeirra hans umsjón gæta.

Blöndals minníng munum finna
hjá meingi í heiðri verða leingi.
Ókvikull hann ei nam hrekjast,
eins og stráið víða um bláinn;
byggðum sýslu sýndi tryggðir,
um sóma þeirra, heill og blóma
ljet sjer annt, og æ þeim sinnti,
unz hann hvarf frá merku starfi.

Gott er eptir gefnum mætti
að geta trúr í köllun fetað
sína leið að settu miði.
Saknaðar þó tárin rakni,
fara að síðar fundir blíðir,
fagnaðs klár þá renna tárin,
þann jeg unni endurfinn jeg;
orðið drottins það mjer vottar.

*B. Þorvaldsson.*

